# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXIII. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

Ársgjaldið er aðeins 1 dollar, og fá allir skuldlausir félagsmenn, er það borga, þetta tímarit ókeypis.

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1951

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Sveinn Björnsson, forseti Íslands

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Árni Pálsson, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Dr. Watson Kirkconnell, President Acadia Univ., Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Winnipeg, Manitoba
Guttomur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, Skáldkona, Winnipeg, Man.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, Ritst. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D. C.
Ásgeir Ásgeirsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Séra Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
J. J. Bíldfell, Winnipeg, Manitoba
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Sigurgeir Sigurðsson biskup Íslands
Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, Minnesota
Ásmundur P. Jóhannsson, Winnipeg, Manitoba
Einar Jónsson, myndhöggvari, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N. D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, formaður í guðfræðideild Háskólans í Reykjavík
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi Briem, Aðalræðismaður, Stokkhólmi í Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor í efnafræði, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M. D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, dómari, Rugby, North Dakota
G. J. Oleson, Glenboro, Manitoba
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg Manitoba
Dr. A. H. S. Gillson, Pres. University of Manitoba
Ólafur Pétursson, Winnipeg, Manitoba
A. S. Bardal, Winnipeg, Manitoba

**C. Ævifélagar**

Árni Sigurðsson,
Seven Sisters, Man.
Dr. Helgi P. Briem,
Consul Gen. of Iceland,
Stockholm, Svíþjóð
Grettir Leo Jóhannson,
Icelandic, Danish Consul
Winnipeg, Man.
Dr. P. H. T. Thorlakson,
Winnipeg, Man.
Gunnar R. Pálsson,
New York, U. S. A.
Grettir Eggertson,
Winnipeg, Man.
Hon. K. Valdimar
Björnsson,
Minneapolis, Minn.

**D. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Dr. Eggert Steinþórsson,
Reykjavík
Frú Gerður Steinþórsson,
Reykjavík
Fröken Jóhanna Friðriksdóttir, Reykjavík
Frú Guðrún J. Erlings,
Reykjavík
Mrs. Rannveig Schmidt,
Reykjavík
Eggert Levy, hreppstjóri,
Ósum, Húnavatnssýslu
Jón Eiríksson,
Djúpadal, Skagafjarðarsýslu
Gunnar Norland,
Reykjavík
Árni Friðjónson,
Siglufirði

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson,
Stella Maris,
Rottingdean, Sussex

3. CANADA

**Árnes, Man.**

Mrs. Guðrún Johnson
O. G. Ólafsson
Þorsteinn Sveinsson
S. J. Thorkelsson

**Ashern, Man.**

Hermann Helgason
Guðm. Sigurðsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel
Dr. Friðrik Fjelsted

**Calgary, Alta.**

Sigurður Sigurðsson

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Elfros, Sask.**

Jón Jóhannesson
Sigurður Arngrímsson

**Frobisher, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Gimli, Man.**

Jón Sigurðsson
Miss Sæunn Bjarnason

**Hayland, Man.**

Mrs. Stefanía Guðmundss.
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson
Mr. og Mrs. Freeman
Halldórsson

**Hnausa, Man.**

Daniel Halldórsson
Hildibrandur J. Hildibrandsson
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Hodgon, Man.**
Rögnvaldur S. Vídal

**Keewatin, Ont.**
Bjarni Sveinsson

**Markerville, Alta.**
Mrs. Rósa S. Benediktson

**Marquette, Man.**
Mrs. Sigríður Sveinsson
S. G. Sveinsson
Árni G. Johnson

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Montreal, Que.**
Mrs. H. L. Robson

**Narrows, Man.**
Miss M. Gunnlaugsson
Kristján Guðmundsson
Joe Kernested
Mrs. Arnþóra Kernested
Miss Katrín Kernested
Guðmundur Thorkelsson

**Osland, B.C.**
Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak View, Man.**
Mrs. Jóhannes Johnson
Thorsteinn Johnson

**Ottawa, Ont.**
Dr. John B. Watkins
Christian Sivertz

**Otto, Man.**
Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Lárus S. Freeman

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson

**Riverton, Man.**
Mrs. Arnheiður Eyjólfsson
Friðrik P. Sigurðsson

**Selkirk, Man.**
Ásgeir Bjarnason

**Sexsmith, Alta.**
Jón Einarsson

**Siglunes, Man.**
Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman
Grettir Fossman

**Swan River, Man.**
Mrs. Thórdís Samson
C. Guðmundson

**Tantallon, Sask.**
Helgi Vigfússon

**Toronto, Ont.**
Einar I. Svanbergson
J. Ragnar Johnson

**Vancouver, B.C.**
Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíasson
Thor Guðmundson
Miss Dóra Davidson

**Victoria, B.C.**
Dr. J. P. Pálsson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Mrs. Unnur Hallson
Mrs. Ingibj. Eggertsson
Mrs. Óli Johnson
Miss Margrét Lambertson
Óli Johnson
J. Eyford
Jónas Johnson
Lestrarfél. „Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson

John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Páll Jónsson

**Wapah, Man.**
Mrs. Fritz Erlendson

**Westbourne, Man.**
Mrs. Lára Sveinsson

**White Rock, B. C.**
S. D. B. Stephanson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. Sigríður Árnason
Mrs. Jónína Christie
Mrs. Gyða Hurst
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Capt. Vilhelm Kristjánsson
Dr. B. H. Olson
G. S. Thorvaldson, K.C.
Jónas Thorvarðarson
Mrs. S. Kjartansson

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman

4. BANDARÍKIN

**Alexandria, Va.**
Leifur Magnússon

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson

**Berkeley, Calif.**
Próf. Sturla Einarsson
Rev. S. O. Thorlákson

**Blaine, Wash.**
Mrs. Kristín F. Líndal

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Kapt. Björgvin Einarsson
Valgeir Einarsson
Andrés Guðmundson
Kapt. Thor Guðmundson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Axel Jóhannsson
Kapt. Guðmundur Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
K. Markússon
Sigtryggur Ólafsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Snorri Einarsson
Jakob J. Thorvaldson
Capt. Óskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**
Ásmundur Benson
Óskar B. Benson
Albert Árnason

**Buena Park, Calif.**
Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**
Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library
Próf. Taylor Starck

**Chicago, Ill.**
Emil Beck
Dr. Árni Helgason
Sigurthor M. Hinrickson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Davis, Calif.**
Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**
Hon. Frederick H. Fljózdal
Jónas W. Johnson

**Fargo, N. Dak.**
W. A. Myrdal
Próf. Th. W. Thordarson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grand Forks, N. Dak.**
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannsson

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ithaca, N. Y.**
Cornell University Library
Kristján Carlson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss

**Jackson, Mich.**
Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**
Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**
Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**
Gunnar Bergman

**Minneapolis, Minn.**
Ásm. Bjarnason
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Sr. David Gulbrandson
Guðmund Peterson
Gunnar S. Bardal
Rev. Sveinbjörn Ólafsson

**Minneota, Minn.**
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson

J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
John A. Johnson
John L. Johnson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Brunswick, N. J.**
Rutger's University Library
Prófessor Helgi Johnson

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Library

**New Ulm, Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York, N. Y.**
Edvard Frímansson
Garðar Gíslason
Jón Guðbrandsson
Hannes Kjartansson
Gunnar Magnússon
Georg Őstlund
Dr. E. Thorláksson
Ólafur Johnson

**Park River, N. Dak.**
Theodore Eyjólfsson

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall
Dr. Caroline Brady

**Portland, Ore.**
Guðm. Thorsteinsson
Mr. N. B. Johnson

**Poulsbo, Wash.**
Mrs. H. F. Kyle

**Princeton, N. Y.**
Próf. R. V. Lindebury

**Oxnard, Calif.**
Jóhannes Sveinsson

**Rio Linde, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Rugby, N. Dak.**
Dr. Chr. G. Johnson

**San Diego, Calif.**
J. K. Steinberg
Mrs. V. Melsted

# George VI. Bretakonungur látinn



56 ára. Ríkisstjórnarár 1936—1952

Hennar hátign Elizabeth II. Bretadrottning



Tók við ríkisstjórn 6. febr. 1952

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG ÞRIÐJI ÁRGANGUR, 1951

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA
Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi
1952

# Myndirnar



PRENTAÐ HJÁ THE COLUMBIA PRESS LTD., 695 SARGENT AVENUE, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Herra Sveinn Björnsson, forseti Íslands



Fæddur 27. febr. 1881 — dáinn 25. jan. 1952

ÞORSTEINN Þ. ÞORSTEINSSON:

# Bókaskápurinn

Eg flý til þín, er annir ekki banna,
þín unun viti hverjum degi er ný,
sem geymir fegra safn af sálum manna,
en söfnuðurnir allir veröld í.

En mikið þér til safnaðanna svipar,
því sanna vissu fáum gefur þú,
fyrst vísindunum vizka jarðar skipar
til vegs og frama í sinni barnatrú.

Hver lokuð bók, er blóm sem nóttu sefur
með bikar luktan, hulinn myrkri í,
sem opnast strax og ilminn frá sér gefur,
er á það geislum sólin stafar hlý.

Hver opnuð bók, sem geymir líf og liti,
er lesandanum hugarsköpun ný,
sem inn í sál hans veitir nýju viti
og víkkar sjónarhringinn störfum í.

Og sögur fólksins — sannleikurinn hálfur
en samt sem áður mynd, er fyrr var dreymd —
þær sýna að draugur, dvergur, tröll og álfur,
er dular-líking manns í huga geymd.

Og ljóð um ást og söng og vín og víking
á vörum okkar geymist heiðni frá,
og von og trú, er enn þá eftirlíking
af apa-mannsins dýpstu hugarþrá.

Þú segir þögull sögu af þjóðum öllum,
en saga lífsins þar er oftast gleymd,
því sögnin snýst um skálka í háum höllum,
sem hjuggu menn og fyltu sveitir eymd.

En skáldsins tunga kendir lífsins kennir,
í kverum þeirra speglast mannleg sál,
og það er aðeins andinn sá, sem brennir
sig inst og dýpst í sérhvert tungumál.

Þótt breytist flestar ytri mannlífs myndir
og mál og stíll hjá hverrar aldar lýð,
hinn sami eldur enn þá brjóstið kyndir
sem ævalöngu fyrir sögutíð.

Og forna sagan leitar lífs og frama
sem letrað orð, er fyrst í gærdag sást,
því þúsund ára sál er enn hin sama
í sorg og gleði, fæðing, dauða, ást.

En mér er kærust allra alheims mynda
míns ættlands fræði í gömlum, nýjum sið,
er hæstu elda á hugans fjöllum kynda
í heimaelskri sál, er þráir frið.

Eg kveð þér þakkir, sálnageymir sæli,
í söfnuðinum þínum fagnar geð,
þú verður alt af vitringanna hæli
þótt vitfirringar slæðist í og með.

PRÓFESSOR RICHARD BECK:

# Tómas Guðmundsson skáld fimmtugur

Laust eftir áramótin 1951 átti Tómas Guðmundsson skáld fimmtugsafmæli. Nýtur hann óvenjulega víðtækra og vaxandi vinsælda, og sýndi það sig eftirminnilega á þessum merku tímamótum ævi hans, því á sjálfan afmælisdaginn barst honum slíkur sægur heillaóska- og þakkarskeyta víðsvegar af landinu, að þess munu fá eða engin dæmi um íslenzkt skáld. Dvaldi hann þann dag austur í Grímsnesi á bernskuheimili sínu, en hann er maður hlédrægur að eðlisfari; mun hann og hafa rennt grun í, hver aðsúgur myndi hafa verið að honum gerður af fjölmennum hópi vina og velunnara, hefði hann verið á heimili sínu í höfuðstaðnum á sjálfu afmælinu.

Eigi slapp hann þó við það, fremur en maklegt var, að vinir hans og aðdáendur hylltu hann í tilefni þess, að hann hafði hálfnað öldina; laugardagskvöldið næsta eftir afmælið héldu þeir honum afar fjölmennt, virðulegt og glæsilegt samsæti í Reykjavík, vottuðu honum þar virðingu sína og þakklæti í ræðum og ljóðum, og sýndu honum ýmsa aðra sæmd. Var þar saman komið mannval mikið úr öllum stéttum. Hafði dr. Páll Ísólfsson tónskáld veizlustjórn með höndum, en dr. Sigurður Nordal prófessor flutti aðalræðuna fyrir minni skáldsins, og þarf eigi orðum að því að eyða, hverjum snillingshöndum hann hefir farið um jafn hugþekkt efni og skáldskapur Tómasar er öllum ljóðavinum. Sjálft flutti skáldið í samsætinu bráðsnjalla ræðu, er sögð er að hafa verið hvorttveggja í senn mögnuð gamansemi og þrungin alvöru, en þeim andstæðu meginþáttum eru snilldarleg kvæði hans haglega slungin.

Einn af skólabræðrum Tómasar, séra Sigurður Einarsson, sem sjálfur er kunnur rithöfundur og skáld, hyllti hinn gamla félaga sinn fimmtugan í fögru kvæði (**Alþýðublaðið**, 13. jan. 1951), og túlkar þar jafnframt trúlega drauma vor allra, sem áttum leið saman á skólabekknum fyrir þrem áratugum, er hann segir:

Oss dreymdi það aldrei að eignast
hús eða skip,
og undur, hvað við gátum lifað án
fégróða tækja,
en skunduðum veg vorn, þótt
skórnir lækju sem hrip,
í skoðun nýrrar dýrðar frá morgni
til kvelds.
Oss dreymdi um eilíft hof hins
heilaga elds

og hvernig þá náð mætti öðlast að
líta hann — og sækja.
Til þess skyldi brotizt á yztu
endimörk heims,
já, yfir þau takmörk stigið, sem
regin banna
að skynja, og höndla hið vígða
vafurlog hans
og vald til að tendra það fyrir
augliti manna.

Svo dreymdi oss í æsku, — og
vissum að tónninn var til,
sem tekur yfir hvern mishljóm í
aldanna niði,
að veikasti ómur hans brúar
sálnanna bil,
er blikandi vængur, sem lyftir
ómálga þrám
og stefnir óskum vor allra til sama
lands.
Hann vígir fegurð allt böl og baráttu
manns
og blóðugan valinn drottins heilaga
friði.
Sá tónn kvað í eyrum oss dulfagur
daga og nótt,
úr djúpum fjarlægra hafa bar ym
frá hans veldi
og kallaði þig til að vinna það
vökumannsstarf,
sem vígt er leit hans fram að
ævinnar kveldi.

Undir þetta tökum vér fornvinir skáldsins og félagar heilum huga, og jafn heilhuga samþykkjum vér ummælin í lokaerindi kvæðisins, sem vafalaust er einnig, hvað Tómas skáld snertir, talað út úr hjarta ljóðavina almennt með þjóðinni:

Ég efa það ekki, að vér leituðum
langt yfir skammt
og lykkjurnar urðu margar á flestra
vegi;
og hrakfarir nógar, — en heillastund
var það nú samt,
er heilagar dísir þér sýndu, hvar
nema skal stað.
Því betur, sem árunum fjölgar, vér
finnum, að það
var fyrsta árblik af þínum sigur
degi.
Þá skildist þér, vinur, að hof hins
heilaga elds
var hjarta þín sjálfs, og þar verður
strenginn að bifa
og seiða fram tóninn í auðmýkt og
ást til hvers lífs
á okkar dýrðlegu jörð. — Því mun
starf þitt lifa.

I.

Tómas Guðmundsson er fæddur 6. janúar 1901 á Efri-Brú í Grímsnesi og standa að honum traustar bændaættir austur þar. Foreldrar hans voru þau Guðmundur Ögmundsson, bóndi að Efri-Brú, og kona hans Steinunn Þorsteinsdóttir hreppstjóra á Drumboddsstöðum í Biskupstungum, nú bæði látin fyrir allmörgum árum.

Tómas lauk stúdentsprófi á Menntaskólanum í Reykjavík vorið 1921. Var þá mikil skáldaöld í skóla, eins og frægt er orðið, og hefir skáldið lýst því á minnisstæðan hátt í einu hinna snjöllu kvæða sinna:

Þá færðust okkar fyrstu ljóð í letur,
því lífið mjög á hjörtu okkar fékk.
Og geri margir menntaskólar betur:
Ég minnist sextán skálda í fjórða
bekk.

Eftir að hafa lokið lögfræðiprófi á Háskóla Íslands 1926, stundaði

Tómas málaflutning í Reykjavík næstu þrjú árin, en varð síðan aðstoðarmaður á Hagstofu Íslands fram til ársloka 1943. Síðan hefir hann gefið sig að ritstörfum. Formaður Bandalags íslenzkra listamanna var hann árin 1943 og 1949, og ber það vitni trausti því og vinsældum, sem hann nýtur í hópi skáldanna og listamannanna.

Þegar hann stendur nú á fimmtugu, á Tómas Guðmundsson sér að baki æði víðtækan, og þó um annað fram sérstaklega merkilegan rithöfundarferil, sem aðeins verður þó í þessari greinargerð rakinn í nokkrum megindráttum, því hér er eigi um tæmandi bókfræðilega upptalningu að ræða á ritverkum hans.

Ber þá fyrst að geta kvæðabókanna, en þær eru: **Við sundin blá**, Reykjavík 1925, önnur útgáfa 1950; **Fagra veröld**, Reykjavík 1933, önnur útgáfa 1933, þriðja útgáfa 1934, fjórða útgáfa 1947; **Stjörnur vorsins**, Reykjavík 1940, en árið áður kom út í París frönsk þýðing á kvæðum Tómasar (**Poémes islandais**) eftir Pierre Naert háskólakennara; og **Fljótið helga** 1950.

Ásamt með Magnúsi skáldi Ásgeirssyni var Tómas ritstjóri tímaritsins **Helgafells** 1943—46, er þeir félagar höfðu stofnað, og á hann þar margt greina og fjölda ritdóma, er sýna víðtæka bókmenntaþekkingu hans, smekkvísi og glöggskyggni í þeim efnum.

Af þýðingum hans má telja: **Arabiskar nætur** (Þúsund og ein nótt), með Páli Skúlasyni, Reykjavík 1934; hið fræga rit **Nóa Nóa** eftir Paul Gauguin (með prýðilegum formála um höfundinn), Reykjavík 1945; og leikritið **Meðan við bíðum** eftir Johan Borgen, er leikið var í Reykjavík 1949.

Tómas hefir einnig af mikilli prýði annast þessar útgáfur verka íslenzkra skálda og samið um þau ítarlegar og ágætar inngangsritgerðir: **Ljóðmæli** Stefáns frá Hvítadal, Reykjavík 1945; rit Jónasar Hallgrímssonar, **Ljóðmæli**, Reykjavík 1945, **í óbundnu máli**, Reykjavík 1946; ný útgáfa, **Ritsafn** (í tveim bindum), Reykjavík 1947; þriðja útgáfa í einu bindi 1949. Tómas ritaði einnig einkar fögur minningarorð framan við íslenzku útgáfuna af kvæðum norska öndvegisskáldsins Nordahl Grieg, **Friheten**, Reykjavík 1943; einnig var hann einn af meðútgefendum hins mikla kvæðasafns, **Íslands þúsund ár**, Reykjavík 1947, valdi kvæðin frá 20. öldinni. Og þegar þetta er ritað, hafa borist fregnir um það, að hann sé að búa undir prentun nýja útgáfu af kvæðum Hannesar Hafsteins (ásamt formála) í tilefni af níutíu ára afmæli skáldsins.

Ekki er það því ofsögum sagt, að harla mikið liggur þegar eftir Tómas af ritstörfum, og hafa þó eigi öll kurl komið til grafar í ofanskráðu framtali. Hitt er þó enn verðugra frásagnar og ánægjulegra, hversu handbragðið á ritum þeim, sem hann hefir farið höndum um, er vandvirknislegt og smekklegt.

II.

Þó að Tómas, jafn hæglátur og hann er í eðli sínu, hefði sig lítt í frammi á skólaárunum, jafnvel í vinahópi, var oss skólabræðrum hans og félögum það fyllilega ljóst, að hann var gæddur næmri at-

hyglisgáfu, stórum meiri fegurðarsmekk en almennt gerðist, og ríkri ljóðrænni skáldgáfu; væntum vér því, margir hverjir, mikils af honum í ljóðagerðinni, er tímar liðu, enda er það nú löngu á daginn komið.

Að vísu skar fyrsta ljóðabók hans, **Við sundin blá** (1925), sig að ýmsu leyti ekki úr öðrum fyrstu ljóðabókum ýmsra þeirra skálda, er um sömu mundir komu fram á sjónarsviðið, enda vakti þetta safn hans eigi neina verulega athyggli almennings, þótt það færi eigi fram hjá ýmsum ljóðaunnendum. Um viðtökur þessarra skólaljóða sinna og uppruna þeirra ræðir höfundurinn annars mjög hispurslaust í eftirtektarverðum formála að hinni nýju útgáfu þeirra (1950), og er réttast að gefa honum orðið, áður en lengra er farið í mati á þeim:

„**Við sundin blá** kom út í aprílmánuði 1925 og voru útgefendurnir nokkrir stúdentar. Vöktu kvæðin fremur litla eftirtekt og öfluðu hvorki höfundinum frægðar né útgefendunum fjár. Þó hefir seinna tekizt svo til, að kver þetta er með öllu þrotið, og hafa þau eintök, er lent hafa hjá fornbókasölum hin síðari ár, komizt í ótrúlega hátt verð. Fyrir þá sök hefir nú verið horfið að því ráði að láta prenta kverið á nýjan leik og kann þó ýmsum að finnast sem því sé gert full hátt undir höfði með slíkri rausn. Kvæðin eru flest til orðin á menntaskólaárunum og bera að sjálfsögðu mörg og auðsæ merki þess aldurskeiðs, en þó má vera, að þau séu í heild öllu einhæfari að yfirbragði og gerð en efni stóðu til. Af einskonar „fagurfræðilegum" hégómaskap, sem ég hirði ekki um að gera nánari grein fyrir, lét ég mér, þegar ég valdi kvæðin til prentunar, sérstaklega annt um, að þau hefðu öll sem samfelldastan svip, og gekk því með ráðnum hug fram hjá nokkrum þeim ljóðum, sem annars hefðu helzt verið til þess fallin að gera kverið fjölbreyttara að viðfangsefnum og stíl. Þannig eru nokkur þau kvæði, er seinna birtust í **Fögru veröld**, til orðin, að minnsta kosti í fyrstu gerð, áður en **Við sundin blá** var prentuð. En þó að ég láti þessa getið, sumpart mér til afsökunar, þá segir það sig sjálft, að ég mundi ekki hafa leyft endurprentun ljóðanna, ef ég vildi ekki framar við þau kannast. Þau eru mér sjálfum persónuleg minning um harla fjarlægan — og sjálfsagt mjög óraunsæjan — hugarheim, þar sem fegurðin ein var hvorttveggja í senn, takmarkið og vegurinn að takmarkinu. Sum kvæðanna eignuðust líka á sínum tíma, þrátt fyrir allt, góðfúsa lesendur meðal ungra skáldbræðra og æskuvina höfundarins, og með þakklæti til þeirra allra, lífs og liðinna, skal þessum formálsorðum lokið".

Og hvað sem segja má um ungæðisbrag á æskuljóðum þessum, þá eru þau öll mjúkstíg, og bera órækt vitni smekkvísi skáldsins um málfar og bragfimi hans. Óneitanlega er t. d. bæði fallega og þýðlega í strengina gripið í upphafskvæðinu, „**Um sundin blá**", en þessi eru fyrsta og niðurlagserindið:

Um vorkvöldin síðla ég sigli einn
um sundin blá.
Til hvíldar er heimurinn genginn
og hljómarnir þysmiklu fallnir í dá.

Um sofandi varir fer viðkvæmt bros
meðan vornóttin gengur hjá.

——0——

Á burtu með söngvunum sál mín líður
um sundin blá — —
í líðandi niði vorblárra vatna
vaggaðu, húmnótt, sorg minni og þrá —
Lát hægan drjúpa af dularhönd þinni
draumveig á syrgjandans brá.

Hér lýsir sér einnig vel sá andi, er svífur yfir vötnum í bókinni, tóntegundin, sem ljóðin eru ort í, þrungin ásthrifni, draumlyndi og trega. Meðal ljóðrænustu og fegurstu kvæðanna í bókinni er þetta heilsteypta smákvæði, samnefnt fyrstu ljóðlínunni:

Eitt hjarta ég þekki, eitt hjarta,
sem hamingjuna fann.
Og skógurinn angaði allan daginn
og elfan söng og rann.

Sumir leita þess alla ævi,
sem aðra bindur í hlekki.
Á harmanna náðir þau hjörtu flýja,
sem hamingjan nægir ekki.

Eitt hjarta ég þekki. Því er
svo þögult allt í kringum mig.
Streym, elfur, hægt í hafið.
Lát húmið, skógur, byrgja þig.

Þegar nánar er að gáð, svipmerkja einnig þessi æskukvæði skáldsins sum einkenni seinni kvæða hans, þó að síðar sé í fastmótaðri og listrænari mynd, sérstaklega ástin og aðdáunin á lífinu og fegurðinni, er orðið hafa meginþættir í skáldskap hans. Ágætt dæmi þess er þetta erindi úr kvæðinu „Komdu!“:

Í dvala líður nóttin og dökkvinn óðum flýr,
en dagurinn, sem rís, yfir nýrri gleði býr,
og ljóma slær á liðna tímans vegi.
Hve veröldin er fögur og ævin ljúf og löng,
og ljúft er nú að geta með hjörtun full af söng
und hvítum seglum siglt mót björtum degi.

III.

En þó skáldið sigldi nú fleyi sínu „hvítum seglum mót björtum degi“, var þess harla langt að bíða, að hann kæmi í höfn úr þeirri för út í lönd drauma og ævintýra. Átta ár liðu, áður en hann sendi frá sér nýja kvæðabók, og munu margir vafalaust hafa verið farnir að halda, að hans biðu sömu örlög og flestra hinna „sextán skáldanna“ úr fjórða bekk, sem beint höfðu æskuást sinni á skáldgyðjunni inn á aðrar brautir. Svo var þó eigi, góðu heilli, um Tómas Guðmundsson. Eftir átta ár rauf hann þögnina með útkomu ljóðabókar sinnar **Fagra veröld**, og gat nú hver sá, er á ljóðum kunni nokkur veruleg skil, séð það ótvírætt, að hér var á ferðinni óvenjulegt ljóðskáld. Með þessari bók sinni vann Tómas sinn fyrsta mikla bókmenntalega sigur, og hann var vel að þeim sigri kominn, því að í þessum kvæðum hans fór saman frábær fágun í máli og bragarháttum, ljóðræn fegurð og frumleiki í efnismeðferð. Hann sló á nýja strengi í íslenzkri ljóðagerð, enda féll þessi bók í svo frjóa jörð hjá ljóðavinum, að hún kom út í þrem útgáfum á stuttum tíma, og nýlega í fjórðu útgáfu, eins og þegar hefir getið verið. Sér-

stætt listaskáld hafði haslað sér völl og gengið til heiðurssætis á Bragabekk og í meðvitund og bókmenntum þjóðarinnar.

Hin „Fagra veröld“ skáldsins er um annað fram heimur hjartafólginna minninga hans frá skólaárunum í hinni ungu og ört vaxandi höfuðborg Íslands, minningar, er legið hafa í dái, líkt og fræ í moldu, í huga hans árum saman og nú blómgast í allri fegurð sinni, sveipaðar rómantískum bjarma fjarrænna töfra. Með fortíðina að baktjaldi og í ljósi hennar túlkar skáldið samtíðina, því að sál hans bergmálar í söng allt það umhverfis hann, sem minnir á liðna tíð. Og þegar hann hugsar til horfinna daga, fyllist hjarta hans trega, er verður að hjartnæmum undirstraum sársauka og saknaðar í kvæðum hans. Þessi geðblær er færður í snilldarlegan búning í upphafskvæði bókarinnar, „Gömlu ljóði“, er lýkur með þessum angurblíðu ljóðlínum og bæn til næturinnar:

Dauð ertu, borg, og aldrei mun æskan framar
ástfangin vitja þinna rökkvuðu garða!
Aldrei framar mun fagnandi dagur rísa
og fara með dansglaðan hlátur um torg þín og stræti.
Gleymd er þín saga og eigi sér enga minning.
Eilífðin vaki hljóð yfir rústum þínum.

En nótt, þú, sem svæfir sorgir og fögnuð dagsins
og sumarsins dýrðar í fölnuðu laufi geymir!
Ég veit, að augu þín lykja um ljósið sem myrkrið.
Því leita ég horfinna geisla í skuggum þínum.
Tak þú mitt angur og vinn úr því söng, er sefi
söknuð alls þess, er var og kemur ei framar.

Þó lifir æskuandinn enn í hjarta skáldsins, og svipað Ómari hinum persneska heldur hann áfram að njóta líðandi stundar til fullnustu, því að hann er sér þess fyllilega meðvitandi, hversu lífið og lystisemdir heimsins eiga sér skamman aldur.

Reykjavík er sá miðdepill, sem þessi kvæði hverfa um, og sérstaklega aðalstræti hennar, Austurstræti, hjarta borgarinnar; og þessu eftirlætisstræti sínu helgar skáldið eitt af sínum ágætustu og snjöllustu kvæðum, og er þetta fyrsti kaflinn:

Nú verður aftur hlýtt og bjart um bæinn.
Af bernskuglöðum hlátri strætið ómar,
því vorið kemur sunnan yfir sæinn.
Sjá, sólskinið á gangstéttunum ljómar.

Og daprar sálir söngvar vorsins yngja.
Og svo er mikill ljóssins undrakraftur,
að jafnvel gamlir símastaurar syngja
í sólskininu og verða grænir aftur.

Og þúsund hjörtu grípur gömul kæti.
Og gömul hjörtu þrá á ný og sakna.
Ó, bernsku vorrar athvarf, Austurstræti,

hve endurminningarnar hjá þér
vakna.

Í þessum erindum eru það sýnilega hinar gömlu og hugþekku minningar, sem kynda undir, og fögnuðurinn yfir nýju vori, en í lokaerindunum slær höfundurinn á strengi þeirrar góðlátlegu en markvissu glettni, sem honum er jafn eiginleg og tiltæk.

Grandskoði maður, hins vegar, kvæðið í heild sinni, þá er lýsingin á borginni í rauninni lítið annað en umgerðin um hugstæða myndina frá liðnum dögum, sem strætið, svo kært skáldinu, kallar fram í huga hans.

Annars staðar í þessum kvæðum sínum bregður skáldið upp litaríkum og heillandi myndum af Reykjavík í sumar- og haustklæðum, og af höfinni með allri sinni ys og þys. Ágætt dæmi þeirra kvæða hans er „Við höfnina“, og fara þrjú fyrstu erindin hér á eftir:

Hér heilsast fánar framandi þjóða.
Hér mæla skipin sér mót,
sævarins fákar, sem sæina klufu,
og sigruðu úthafsins rót.
Og höfnin tekur þeim opnum örmum
og örugg vísar þeim leið.
Því skip er gestur á hverri höfn.
Þess heimkynni djúpin breið.

Hér streymir örast í æðum þér
blóðið,
ó, unga, rísandi borg!
Héðan flæðir sá fagnandi hraði,
sem fyllir þín stræti og torg.
Sjá skröltandi vagna og bíla, sem
bruna,
og blásandi skipa mergð.
Tjöruangan, asfalt og sólskin
og iðandi mannaferð.

— Og skipin koma og skipin blása
og skipin fara sinn veg.
Dreymnum augum eftir þeim starir
æskan þegjandaleg.
Í huganum fjarlægar hafnir syngja.
Það hvíslar með lokkandi óm:
Rússland, Asía, England, Kína,
Afríka, Spánn og Róm. —

Í þessum og öðrum slíkum kvæðum sínum hefir skáldið seitt í strengi sína hjartaslög hinnar vaxandi höfuðborgar, sem hafði vafið hann, sveitadrenginn að hjarta sér, og sem hann, á sína hlið, varð fyrstur til að lýsa, og túlka líf hennar, í svipmiklum ljóðum og langlífum, og skipaði henni þá um leið og til langframa í heiðurssess á bókmentalegu landabréfi þjóðarinnar. Því hefir hann ekki að ástæðulausu verið kallaður skáld Reykjavíkur, fyrsta borgarskáld landsins; eigi að síður, eins og glöggt má sjá í öðrum kvæðum hans, á hann sér djúpar og órjúfanlegar rætur í átthögum sínum austur í Grímsnesinu.

Þessi Reykjavíkurkvæði skáldsins eru með aðlaðandi rómantískum blæ, en jafn sérkennileg fyrir græskulausa gamansemi þeirra, því að Tómasi er það vel að skapi, og lætur sú list, að horfa á borgarlífið, og mannlífið í heild sinni, með góðlátlegum glettnisglampa í augum. Þetta lýsir sér ágætlega í kvæðinu „Húsin í bænum“:

Bærinn er skrítinn. Hann er fullur
af húsum.
Hús meðfram öllum götum í röðum
liggja.
Aldraðir byggja og ungir menn
kaupa lóðir
og ætla sér líklega að byggja.

Og samt sem áður er alltaf verið
 að deyja,
og undarlegt, að það hendir jafnt
 snauða sem ríka.
Menn kváðu jafnvel deyja frá
 hálfbyggðum húsum.
Og hinir? Þeir deyja víst líka.

Já, mönnum finnst það skrítið, sem
 þeir ekki skilja.
Hver skilur öll þessi hús, sem í
 röðum liggja?
Hver skilur lífið og allar þess
 óbyggðu lóðir?
Og af hverju er verið að byggja?

Stundum fær þessi létta kýmni Tómasar á sig alvarlegri blæ, eins og í hinu frumlega og snjalla kvæði „Hótel Jörð“, en í því ber skáldið, á áhrifamikinn táknrænan hátt, saman veru manna á jörðu hér við dvöl á hóteli, þar sem allir verða að lokum að gera upp reikningana, eða eins og skáldið orðar það:

Þá streymir sú hugsun um oss sem
 ískaldur foss,
að allt verði loks upp í dvölina tekið
 frá oss,
er dauðinn, sá mikli rukkari, réttir
 oss
reikninginn yfir það, sem var
 skrifað hjá oss.

Hvergi nær Tómas þó hærra í skáldlegri fegurð í þessari bók sinni heldur en í hreinræktuðum ljóðrænum kvæðum hennar, eins og „Japönsku ljóði“, sem er mikið listaverk að málblæ og yndisþokka, og „Haustnótt“, jafn hugnæmt og ljóðrænt, en með dýpri undirstraum tilfinninganna:

Mánaljós og silfur um safírbláa
 voga!
Og senn er komin nótt. —
Það skelfur eins og strengur sé
 strokinn mjúkum boga.
Og stjörnuaugun loga
á djúpsins botni demantskært og
rótt.

En bráðum rísa vindar við yztu
 sævarósa,
um unn og strendur lands.
Og bylgjuföxin rísa sem beðir
 hvítra rósa,
og boðar norðurljósa
í perluhvítum stormi stíga dans.

En fjærst í dýpstu myrkur og lengra
 en augað eygi,
er aðrir sofa rótt,
á eirðarlausum flótta um auða
 hafsins vegi
á undan nýjum degi,
fer stakur már um miðja vetrarnótt.

En öll ber þessi ljóðabók sérstaklega merki hins vandfýsna formsnillings, sem leikur móðurmálið frábærlega létt á tungu, byggir kvæði sín upp á áhrifamikinn hátt, og er gæddur þeim fágæta hæfileika að geta klætt innstu hugsanir sínar og tilfinningar í samsvarandi listrænan búning.

IV.

Í þakklætis- og verðlaunaskyni fyrir bók hans **Fagra veröld**, bæði vegna skáldsnilldar hennar og þá eigi síður vegna sérstæðra og töfrandi lýsinga hennar á Reykjavík, veitti bæjarstjórnin Tómasi fararstyrk, sem gerði honum fært að ferðast til Ítalíu og Miðjarðarhafs.

Í næstu bók hans, **Stjörnum vors-**

**ins** (1940), eru mörg kvæðin, og sum af þeim allra fegurstu, ort undir áhrifum frá þeirri minnisstæðu för, er opnaði skáldinu nýja heima. Hér eru einnig eigi allfá kvæði, er sverja sig í ætt til fyrri bókar hans, **Fagurrar veraldar**, um efni og anda, svo sem „Skólabræður" og „Post jucundam", ný blóm í garði djúpstæðra minninganna frá æskudögum og æskuyndi, og formsnilldin er söm við sig; jafnframt er slegið á léttari strengi. Sannleikurinn er sá, að í báðum fyrrnefndum kvæðum, og bókinni allri, er leiftrandi kýmnin bæði einkar áberandi og að sama skapi hugþekkt sérkenni skáldskaparins, og jafnframt auðugri og þroskaðri en áður. Þetta kemur eftirminnilega fram í hinum frábæru kvæðum „Þegar ég praktiseraði" og „Víxilkvæði".

Í fyrra kvæðinu lýsir skáldið því með ljóðrænni kaldhæðni, er hann gerðist lögfræðingur, biðinni eftir viðskiptamönnunum, sem aldrei komu, og sá hann því þann kostinn vænstan að fara að yrkja kvæði á skjalapappírinn, stefnu- og víxlaeyðublöðin, þangað til pappírinn var genginn til þurrðar, og ekki annað fyrir hendi en að loka skrifstofunni, en látum skáldið sjálft segja sögulokin:

En seinast, þegar eyðublöðin entust
mér ei lengur,
hvað átti ég þá framar við skrifstofu
að gera?
Með kærri þökk fyrir viðskiptin ég
kunngerði eins og gengur,
að cand. jur. Tómas Guðmundsson
væri hættur að praktisera.

Seinna kvæðið er alveg sérstakt í sinni röð, því að það er ramm-kýmileg sjálfsævisaga víxils, sem nú á að framlengja í fertugasta sinn. Hið eftirtektarverðasta um þetta kvæði er þó það, hversu vel skáldinu tekst að klæða þetta hversdagslega viðfangsefni í lifandi persónugerfi og gera það táknmynd úr mannlífinu.

Hæfileiki skáldsins til að flétta saman hreina ljóðrænu og leiftrandi kýmni nýtur sín ágætlega í kvæðinu „Garðljóð", úr Ítalíuferðinni, og „Jónsmessunótt", eins og nafnið bendir til með þjóðsögublæ; lýsir það álfahátíð á Jónsmessunótt, og fellur léttstíg og hröð hrynjandin ágætlega að efninu:

Og dátt skal dansinn stiginn
fyrst dagurinn er hniginn
og enginn álfur telur
það eftir sér að vaka.
Og álfar berja bumbur
og blása í álfatrumbur
svo dýrin fara í felur
en fuglar hætta að kvaka.

Og aldnir álfar labba
og álfakarlar rabba
um hagi sína saman
og sælli stunda minnast.
Þeir totta tómar pípur
og tregi hjörtun grípur.
Ó, Guð, hve þá var gaman!
Hve gott var þá að finnast!

Aðal bókmenntagildi bókarinnar er þó, eins og í **Fagurri veröld**, í ljóðrænu kvæðunum. Í kvæðinu „Við Miðjarðarhafið" lýsir skáldið á litauðugan hátt náttúrufegurðinni á þeim slóðum, og með enn meiri djúpskyggni, þeim skáldlega innblæstri og þeirri innsýn, sem hann varð aðnjótandi í því sögulega og rómantíska umhverfi:

En inni í garðinum róslitað rökkur
hneig
frá rismiklum pálmum, sem hófust
í þaggandi blæ.
Og þúsund ára angan úr sandinum
steig
frá urtum og víni, sem tíminn
kastaði á glæ.

Og tíminn leið og sál mína bar
með sér,
og sál mín beið þess áhyggjulaus
og hljóð,
sem heilagur andi hvíslaði í
eyra mér
og hentað gæti þjóðinni minni
í ljóð!

Því himininn skráði sitt andríki'
á blóm og blað,
og mitt barnslega hjarta fylltist af
þakkargjörð.
Þá birtist sem leiftur úr lundinum
handað að
ein af lausavísum Drottins á þessari
jörð.

Og sjá! Ég skynjaði inntak hins
eilífa ljóðs,
sem ódauðleikans glóð undir
vængjum ber,
því draumar liðinna kynslóða
kvöddu sér hljóðs
og kröfðust að fá að lifa í brjósti mér.

Og aldrei síðan hjarta mitt hóf
að slá
jafn himnesk vitneskja sál mína
valdi tók,
hve okkar ljóð eru lítil við hliðina á
hinum leyndardómsfulla skáldskap
í Drottins bók.

„Í klausturgarðinum", einnig úr Ítalíuferðinni, er hjartnæm lýsing á djúpri löngun skáldsins til að endurheimta drauma og hugsjónir æsku sinnar og gera þau að nýjum aflvaka í lífi hans. Kvæði þetta, sem er meistaralegt að málfari og samlíkingum, sýnir frábærlega vel hæfileika skáldsins til að finna dýpstu hugsunum sínum og hræringum hæfan og listrænan búning. Hámarki sínu nær þó ljóðræn fegurðin í kvæðinu „Þjóðvísu", sem margir telja fegursta kvæði skáldsins, en fegurðarinnar og töfranna í þessu gullfagra kvæði um draum og harm smámeyjarinnar, er var „dularfulla blómið í draumi hins unga manns", njóta menn aðeins til nokkurrar hlítar við lestur þess.

Ljóðrænir og draumrænir töfrar skáldskaparsnilldar Tómasar Guðmundssonar klæðast því glæsilegum búningi í þessum og fleiri kvæðum safnsins. Í upphafs- og lokakvæðum þess, „Aladdín" og „Eftirmála", er grunntónninn, eins og svo oft áður, treginn yfir horfinni æsku með draumaveröld hennar, samhliða leit eftir fegurð og hamingju, sem skáldið heldur áfram að finna í unaði líðandi stundar. En eins og þung undiralda er meðvitundin um fallvaltleik jarðneskra gæða og geigvænn uggurinn um stöðuga nálægð dauðans.

Þó að ýmsum muni þykja lífsskoðun þessi æði neikvæð, er eigi að síður í kvæðum Tómasar fram að þessum tíma, mikla svölun að finna listhneigðum sálum, því að hann er eigi aðeins gæddur hæfileikanum til þess að sjá fegurðina í lífinu, jafnvel á hinum ólíklegustu stöðum, heldur á hann þá enn þá fágætari gáfu að geta gert aðra hlutlhafa í þeirri fegurð í listrænum skáldskap sínum.

V.

Liðu nú tíu ár þangað til Tómas sendi frá sér nýja ljóðabók, og biðu margir hennar með óþreyju, ekki sízt vegna þess, að kvæði hans, sem komið höfðu út á því tímabili í blöðum og tímaritum, báru því vott, að hugðarmál hans og horf við lífinu höfðu tekið mikilli og djúpstæðri breytingu og skáldskapur hans að sama skapi um anda og innihald. Þetta kom einnig ótvírætt á daginn, þegar hin langþráða bók hans, **Fljótið helga**, kom út stuttu fyrir jólin 1950. Hún sýnir það, svo að eigi verður um villst, að Tómas hefir á síðasta áratug stórum vaxið að djúpskyggni og víðfeðmi, að óbreyttri þeirri frábæru ljóðfegurð og listrænni fágun, sem alltaf hefir svipmerkt kvæði hans. Var útkoma bókar þessar með réttu talin mikill bókmenntaviðburður. Með henni hefir höfundurinn einnig (fram að þessu) unnið sinn mesta bókmenntasigur og tekið sér sess meðal öndvegisskálda þjóðarinnar.

Ekki þarf annað en lesa fyrsta kvæði bókarinnar, „Kvöldljóð um draum“, til þess að sannfærast um, að hér er ekkert hversdagsskáld á ferð, en kvæðið hefst með þessum erindum:

Í kvöldrauð gljúfur hrynur dauðahljótt
hið hvíta ljós, er skein á runni og bárum.
Því vorið hefur mælt sér mót í nótt
við mánaskin frá löngu horfnum árum.
Og það er eins og elfan skipti um róm.
Svo ástúðlegum hreimi fossinn niðar
sem varist hann að vekja kvöldsvæf blóm.
Hann vill að jörðin njóti svefns og friðar.

Svo spegla hyljir heiði stjörnumilt,
en handan vatnsins, lágt við fjallsins rætur,
er dalsins kirkja horfin hægt og stillt
í hljóðan skugga fjólublárrar nætur.
Og meðan rökkri reifast sofin jörð,
sem reikar dreymin meðal himinstjarna,
hún vakir hrum og heldur tryggan vörð
um hinzta náttstað þreyttra jarðarbarna.

Þetta er sannarlega fögur og tilkomumikil náttúrulýsing, ágætt dæmi þess, hvernig skáldinu lætur sú myndasmíð, hversu snjall málari hann er í orðum. Samt er þetta ekki nema bakgrunnur meginefnis þessa merkilega kvæðis, sem er fágæt sjálfslýsing. Höfundurinn gengur þar á vit við liðna tíð, verður á ný lítill drengur, „skáld og draumamaður, sem skyggnum þrettán vetra augum starir“; hann horfist djarflega í augu við sjálfan sig og gerir upp reikningana. Kristmann Guðmundsson rithöfundur fór ekki villur vegar, er hann lét svo ummælt um þetta snilldarlega kvæði (sem auðvitað verður að lesast í heild sinni), að undir kyrru og mildu yfirborði þess búi „dulmögnuð kyngi sjálfsrannsóknar og sálarbaráttu, er endað hefir með sigri og heiðríkri karlmannsró“. Í kvæðinu fara saman dýpt og alvöruþungi, og þannig yrkir sá einn, sem náð hefir miklum andlegum þroska, glímt við sjálfan

sig og vandamál mannlegrar tilveru, og gengið sigrandi af hólmi.

Eigi að síður hefir Tómas ekki glatað hæfileikanum til þess að slá á léttari strengi góðlátlegrar glettni á sinn eiginlega og frumlega hátt, jafnvel þegar hann sjálfur á í hlut, eins og fram kemur í kvæðinu „Að vera samtíða sjálfum sér“, sem er bráðskemmtilegt. Af skyldum toga spunnið, en viðameira, er „Bréf til látins vinar“. Sérstæð kýmnigáfa skáldsins, sem ósjaldan finnur sér framrás í markvissri kaldhæðni, eins og þegar hefir verið bent á, nýtur sín þar ágætlega; þetta erindi verður að nægja sem dæmi:

En dánum fannst okkur sjálfsagt að
þakka þér
og þyrptumst hljóðir um kistuna
fagurbúna.
Og margir báru þig héðan á höndum
sér,
sem höfðu í öðru að snúast þangað
til núna.
En þetta er afrek, sem einungis
látnum vinnst,
í allra þökk að gerast virðingar-
mestur.
Því útför er samkoma, þar sem oss
flestum finnst
í fyrsta sinn rétt, að annar sé
heiðursgestur.

Mikill snilldarbragur er enn sem fyrri á hinum hreinræktuðu ljóðrænu kvæðum skáldsins, eins og sjá má af hinu gullfagra kvæði „Fljúgandi blóm“, er jafnframt speglar eftirminnilega lífsskoðun hans:

Og seg þú mér, ljóð mitt, hvort ekki
er einmitt þetta
hin eina gleði, sem sálir og kvæði
varðar,
að mega í auðmýkt fara að dæmi
fuglsins,
sem flýgur í erindum guðs milli
himins og jarðar?

Um annað fram eru það samt hin alvöruþungu og stórbrotnu lengri kvæði bókarinnar, fáguð og formföst og þrungin að hugsun, sem setja svip sinn á hana og skapa henni sérstöðu í skáldskap höfundar, því þar lýsir sér ný hlið á honum. Tómas hefir auðsjáanlega nætt inn í hjartarætur í „stormum sinna tíða“, heimsstyrjöldinni síðari, sem óhætt mun mega segja, að valdið hafi straumhvörfum í lífshorfi hans og skáldskap. Þeirri reynslu hans er lýst á áhrifamikinn og listrænan hátt í kvæðinu „Heimsókn“. Gesturinn, sem knúð hefir dyr skáldsins, vakið hann af andvaraleysinu og glætt honum nýja útsýn og ábyrgðartilfinningu í brjósti, er lífið í öllum ömurleik sínum; en þannig farast skáldinu sjálfu orð:

Því lífið kemur sjálft í þetta sinn
að sækja þig en ekki skáldskap þinn.
Það hefur öðrum erindum að gegna.
Og það er skáld, sem yrkir öll sín
ljóð
frá eigin brjósti, misjafnlega góð,
en hreyfir aldrei hending rímsins
vegna.

Og vei þeim, sem ei virðir skáldskap
þann,
sem veruleikinn yrkir kringum
hann,
og stendur ógn af skáldsins
tungutaki.

Því sjá, hann fléttar einnig örlög
þín
við örlög bræðra þinna í kvæðin
sín.
Þar búa allir undir sama þaki.

Á sömu strengi er slegið í hinu samfellda og svipmikla kvæði „Haust", en í því er jafnframt undiralda djúps trega. Kvæðið „Út vil ég — heim" lýsir því vel, hve höfundi hafa, að vonum, gengið til hjarta þung örlög Norðurlandaþjóðanna á stríðsárunum. Hreimmikið kvæði og hugsun hlaðið er „Dansinn í Hruna", fléttað markvissri ádeilu að öðrum þræði, en hins vegar lofsöngur um sigurmátt og skapandi mátt mannsandans.

Í fögru kvæði og þýðu um Jónas Hallgrímsson lýsir Tómas snilldarlega hlutverki Jónasar og vakningarstarfi í íslenzku þjóðlífi, og óbeinlínis um leið menningar- og vakningar-hlutverki skáldanna almennt. Sætir það engri furðu, að maður, sem yrkir svo fagurlega og af jafn miklum skilningi um „Listaskáldið góða" og tengsli hans við móðurmoldina, ber sjálfur í brjósti djúpa ættjarðarást og syngur ættjörðinni fagra lofsöngva og eggjandi til dáða, enda gerir Tómas það á skáldlegan og minnisstæðan hátt, svo sem í „Ávarpi Fjallkonunnar" (17. júní 1948), þar sem listræn efnismeðferðin og framsóknarhvötin renna í einn farveg.

Svipmest af ættjarðarljóðum Tómasar, og eitthvert stórbrotnasta og snilldarlegasta kvæðið í allri bókinni, er kvæðið „Að Áshildarmýri". Það er þannig vaxið um heilsteypta og þróttmikla hugsun, að menn verða að lesa það í heild sinni og íhuga til þess að njóta þess til fulls og meta. Það er faguryrtur og verðugur lofsöngur um „tólf hversdagsmenn, sem fordildarlaust stóðu vörð um rétt sinnar þjóðar", og jafnframt um alla íslenzka alþýðumenn í liðinni tíð, sem unnu ættjörð sinni fölskvalaust og létu hvorki kúgun né önnur andvíg kjör drepa niður frelsishneigð sína. Þetta skilur skáldið og túlkar til fullnustu:

En hvaðan kom þeim sá styrkur,
sem stórmenni brást?
Hvað stefndi þeim hingað til
viðnáms ofbeldi þungu?
Oss grunar það jafnvel að orð eins
og föðurlandsást
hafi æði sjaldan legið þeim mönnum
á tungu?
En þeim var eðlisbundin sú blóðsins
hneigð,
er bregzt gegn ofríki og nauðung
án hiks og kvíða,
og því verður aldrei til samnings við
óréttinn sveigð,
að samvizkan ein er það vald, sem
frjálsir menn hlýða.

Prýðisvel ort og rismikil eru einnig önnur tækifæriskvæðin í bókinni, en andríkast þeirra og tilþrifamest „Hátíðaljóð á aldarafmæli Prestaskólans" (2. október 1947). Annars er þessi nýja kvæðabók Tómasar svo auðug að skáldlegri fegurð, málsnilld og spaklegri hugsun, að einstök kvæði og jafnvel einstakar ljóðlínur eru ærið efni heillar ritgerðar. En einhvers staðar verður að stinga við fæti.

Samt væri það með öllu ósanngjarnt gagnvart skáldinu, að skiljast svo við þetta mál, að eigi væri að einhverju getið þess boðskapar, sem bókin hefir að flytja. Eins og þegar

hefir verið gefið í skyn, og að nokkru kom í ljós í tilvitnunum úr kvæðunum, þó að stiklað hafi verið á stóru, þá er sá boðskapur ýmsum meginþáttum slunginn.

Skáldið er eldheitur ættjarðarvinur, glöggskyggn á gildi þjóðlegra menningarverðmæta, og boðar þjóð sinni heilbrigða föðurlandsást og þjóðrækni. Hann er jafn eldheitur unnandi frelsis og mannréttinda, og því heldur hann einnig hátt á lofti í kvæðum sínum logandi kyndli þeirra hugsjóna þjóð sinni til vakningar og leiðsögu. Hann mælir t. d. til hennar alvarlegum varnaðarorðum, er hann segir í „Ávarpi Fjallkonunnar“ (17. júní 1950):

Þá er þín hamingja
ef hvorki má
heift né hyggja flá
hug þinn vinna.
Varast því að kveðja
þeim vopnum hljóðs,
er leita banablóðs
bræðra þinna.

Og þessar ljóðlínur beina huga lesandans að því, sem er djúpstæðast í jákvæðum og lífrænum boðskap þessarar bókar skáldsins: — Sú sannfæring hans, að eigi mannkynið að finna leið út úr núverandi ógöngum, þá verði það að hafna efnishyggjunni, sem hefir leitt það út á refilstigu, og leiða í staðinn til öndvegis mannúðar- og manngildiskenningar kristilegrar lífsskoðunar; þetta segir hann kröftuglega í eftirfarandi ljóðlínum úr „Hátíðaljóðum Prestaskólans“:

Og treystum því, sem hönd guðs hefur skráð:
Í hverju fræi, er var í kærleik sáð,
býr fyrirheit um himnaríki á jörðu.
Hver heilög bæn á vísa drottins náð.
Og skyldum vér ei ógn og hatri hafna
fyrst hjálp og miskunn blasir öllum við
í trú, sem ein má þúsund þjóðum safna
til þjónustu við sannleik, ást og frið.

Þetta er kjarninn í þeim grundvallandi og tímabæra boðskap, sem Tómas Guðmundsson flytur þjóð sinni í þessari nýju kvæðabók sinni. Og þar sem sá boðskapur er klæddur í óvenjulega fágaðan og listrænan búning máls og ljóðforms, þá talar þessi boðskapur skáldsins bæði til heila og hjarta lesandans, til skynsemi og listhneigðar þjóðarinnar. Óneitanlega rækir Tómas Guðmundsson því vel spámannlegt hlutverk hins mikla skálds: Að halda hátt á lofti fyrir þjóð sinni björtu blysi hinna æðstu lífssanninda og manndómshugsjóna, en slaka þó eigi til um strangar kröfur ljóðlistarinnar.

Sæmir svo vel að skilja við skáldið á einum hátindinum í þessari bók hans láta skáldið kveðja lesandann með niðurlagsorðunum úr síðasta kvæði hennar, samnefnt henni, sem jafnframt er eitt allra fegursta kvæði hennar:

Og geiglausum huga ég held til móts
við haustið, sem allra bíður.
Og sefandi harmljóð hins helga fljóts
úr húminu til mín líður.
Eins veit ég og finn að það fylgir mér
um firrð hinna bláu vega,
er hníg ég eitt síðkvöld að hjarta þér,
ó, haustfagra ættjörð míns trega.

í öndverðu gaf sem leiðarljós
í lífi hvers óbreytts manns:
Því ástin er lögmál — alheimsmál;
hver einasta sál það kann;
hún veitir því ytra veg og skraut
og vermir hinn innra mann.

Það stórt er að vinna sigursveig,
í sögunni dýrð og hrós,
í frægðarverkum og skörungsskap
að skína sem fagurt ljós.
En öll þau verðlaun, sem veröld á
frá valdhafa nokkurs lands,
ég fyrirlít — kýs mér konuást
í kóngsríki óbreytts manns.

Þó glaumurinn nafn mitt hefji hátt,
sú hæð er mér engin þægð;
því konunnar ást, sem óð minn söng,
skal aldregi mæld við frægð.
Og engin virðing, sem veröld á
frá valdhafa nokkurs lands,
má komast til jafns við konuást
í kjörum og líðan manns.

En bregðist himnesk og heilög ást,
og hlotnist ei þér né mér,
þá dyljum sorgir og dáið líf
með drengskap við hvað sem er.
Því þeir, sem fórnstalla bygðu bezt,
og brautsmiðir sérhvers lands
eru' kappar, sem hlutu' ei konuást
né kóngsríki óbreytts manns.

---

# Bækur og rit

**Dr. Rögnvaldur Pétursson:**
**Fögur er foldin**
**Ræður og erindi**

Húspostillu öldin er fyrir svo langa löngu um garð gengin, að óvíst er að yngri kynslóðirnar viti við hvað er átt með orðinu húspostilla. Okkur nítjándu aldar mönnunum, sem ólumst upp við þrumur og eldingar meistara Jóns, ládeyðu og lognmollu Péturs biskups eða vorgolu séra Páls, þó aðrir fleiri séu ekki nefndir, bregður síður í brún, þótt einni bók af líku tæi sé bætt á hilluna. Í strjálbygðinni og samgöngu örðugleikunum heima á föðurlandinu í fyrri tíð intu þessar bækur ákveðið hlutverk af höndum í félagslífinu. Í þorpum og þéttbýlum sveitum nú á dögum geta þeir, sem svo eru sinnaðir, sótt kirkjur sínar og hlýtt á hið lifandi orð af vörum prestanna — ef það þá er lifandi. Svona bækur eru því fremur gefnar út í minningu höfundanna og til að varðveita orð þeirra frá algerðri glötun, en til almenns lesturs í heimahúsum, eins og tíðkaðist við daglega iðkun guðrækninnar á síðustu öld og enn aftar í fortíðinni.

Ég hefi bent á það á öðrum stað, að þessi bók er til orðin á nokkuð annan veg en allar aðrar hugvekjur, bænir og ræður, sem ég þekki til. Ræðurnar eru sem sé óbreyttar eins og höfundurinn lagði þær frá sér eftir hverja messugerð. Honum datt víst aldrei í hug, að láta þær á þrykk útganga og lagði því engan tíma í það, að endurskoða þær eða hreinskrifa. Að einu leyti getur þetta verið kostur: Þær sýna á næmari hátt þann hugblæ, er höfundurinn var snortinn af, þegar hann samdi þær og flutti.

Dr. Þorkell Jóhannesson sá um val og útgáfu ræðanna, og hefir haldið sér að hinum mildari og þíðari ræðum um lífið og tilveruna. Er það að líkindum heppilegt, þó nokkuð einhliða sé, því hætt er við, að lesendurnir, sem að sjálfsögðu eru flestir á Íslandi, skilji síður þær ræður, sem til urðu í bardagamóði líðandi stunda hér vestra. Í bókinni eru rúmar fjörutíu ræður, en úr nokkrum hundruðum var að velja. Það þarf því eigi að skoðast hótfindni eða vantraust þó maður geti sér til, að margar eins góðar eða betri hafi verið bornar fyrir borð í valinu. En svo er það nú mín kredda, að úrval sé, þegar best lætur, neyðarúrræði, og í flestum tilföllum ætti ekki að eiga sér stað, nema höfundurinn ráði þar um sjálfur.

Það kann að þykja hjákátleg fullyrðing frá heiðingja, en ég hika samt ekki við

að telja þetta eina þá bestu bók, sem nokkur getur lesið sér til andlegrar viðreisnar og sálubóta. Tökum sem dæmi tvær ræður af handahófi: „Það þýtur í skóginum“ og „Fögur er foldin“, sem gefur bókinni nafn. Stílfegurðin og orðgnóttin ein eru næg til að lyfta þér á flug. Og sértu í ósátt við lífið og sjáir ekkert nema tilgangsleysið og ömurleikann, þá „ert þú úr skrítnum steini“, ef ekki birtir yfir þér ögn við lesturinn.

Bókin er hin prýðilegasta að öllum ytri frágangi — pappír prentun og band hið ákjósanlegasta, og ekki ýkja margar prentvillur. Tvær ágætar myndir frá yngri og efri árum höfundar eru í bókinni.

**Dr. Stefán Einarsson:**
**Skáldaþing**

Sum af okkar íslensku blöðum og tímaritum hafa í einn tíma eða annan fallið ofan í þann ömurlega farveg, að eyða alt upp að einum fjórða hluta lesmáls í bókfregnir og ritdóma. Einstöku eru vitanlega ritaðir af þekkingu og rólegri yfirvegun, en á öllum fjöldanum er lítið að græða. Sama jórtrið, sama formúlan ár eftir ár, aðeins með breyttum bókanöfnum og höfunda, eftir því sem á stendur, oftast lof, stöku sinnum ónota kartni eða hártogun, en sjaldnast neitt, sem hjálpar lesendunum til að átta sig á eða brjóta til mergjar. Sögur eru vanalega taldar meistaraverk, betra en nokkuð annað eftir sama höfund, úr kvæðabókunum eru endurprentaðar vísur og vísuhelmingar, sem á að vera háfleygara en það háfleygasta. En stundum vill svo til, að við það minka skáldin í augum algengs lesara, af því að dæmin hafa mistekist eða smækkað við það, að vera slitin út úr samhengi.

Það er því enginn smáræðis fengur í bókum eins og **Skáldaþing**, sem ekki aðeins stendur langt utan við dægurþrasið, heldur og sýnir marga vora merkustu rithöfunda frá víðara og breiðara sjónarmiði, fylgir þroska og bókmentaferli þeirra frá vöggunni til grafarinar, þar sem svo stendur á, og rekur þræði þá sem samantengja fortíð og nútíð.

Þessi bók er hátt á fimta hundrað blaðsíður í stóru bókasafnsbroti, og tekur til meðferðar um tuttugu íslensk skáld og rithöfunda. Stærstar og yfirgripsmestar eru ritgjörðirnar um Jón Trausta (Guðm. Magnússon), Indriða Einarsson, Einar H. Kvaran, Þorgils Gjallanda (Jón Stefánsson) og Guðmund Finnbogason. Nær ganga greinar um Skáldsögur Jóns Thoroddsens, Kristmann Guðmundsson, Guðmund Friðjónsson, Jón Sveinsson, Guðmund Kamban, Gunnar Gunnarsson og Halldór Kiljan Laxness. Þá eru og greinar um Sigurð Nordal og Guðmund Hagalín, en um hinn síðar nefnda hefir komið fyllri grein síðan í þessu tímariti. Og eins og í milli sviga mætti geta þess, að sumar allra merkustu ritgjörðirnar hafa áður verið prentaðar í því. Aðrar greinar um einstök atriði eru: Gamanbréf Jónasar Hallgrímssonar, Úr ferðasögu Charles Edmonds á Íslandi 1856, Benedikt Gröndal og Heljarslóðarorusta, Presturinn á Vökuvöllum og Jón Þorleifsson, Alexander Kielland og Gestur Pálsson.

Ef einhver skyldi halda, að hér væri eingöngu um þurran fræðilestur að ræða, þá ætti sá hinn sami sem fyrst að losa sig við þá grillu. Bókin er meira en skýringar á höfunda einkennum, bókmentalegum stefnum og straumum — hún er auk þess bráðskemtileg aflestrar og laus við hlutdrægni, nema ef vera skyldi höfundunum heldur í vil. Myndir höfundanna fylgja.

Þótt það komi þessari bók ekki beinlínis við, þá rak ég mig þar á orð, sem ég kann meinilla við — orð, sem fræðimönnum á Íslandi virðist að vera mjög tamt — orðið **lýgisaga**, sem er látið tákna allar riddarasögur, Fornaldarsögur Norðurlanda og sumar Íslendingasögurnar. Ef það er réttmætt, má eins vel leggja niður orðið **skáldsaga**, því alt, sem ekki er vitanleg staðreynd, er þá lýgisaga. Jafnvel suma kafla mannkynssögunnar mætti þá stimpla sem lýgisögu.

**Sig. Júl. Jóhannesson:**
**LJÓÐ**
**Steingr. Arason**
**hefur valið.**

Sennilega er höfundur þessa ljóðakvers elsta núlifandi skáld Íslendinga. Hann er nú nærri hálf-níræður, og enn vel vakandi og starfandi. Þrátt fyrir ævilangt annríki og mörg umfangsmikil störf liggja eftir hann mestu kynstur af frumortum og þýddum kveðskap.

Fyrir fjörutíu árum kom út eftir Sigurð ljóðabókin „Kvistir“, álíka stór bók og þessi, og er ýmislegt úr henni tekið upp í þessa, sem þó var hreinasti óþarfi, því síðan hafa til orðið flest af hans bestu og þroskuðustu kvæðum, þýddum og frumortum. Ég held það engar öfgar, að Sig-

urður hafi efni í tvær bækur að auk af sömu stærð og þessa, því í samfleytt fjörutíu ár, síðan Kvistir komu út, hefir hann verið síyrkjandi.

Sigurði er framúrskarandi létt um rím. Hygg ég að honum svipi þar til Sighvats skálds í forna tíð: „Sighvatr var ekki hraðmæltr maðr í sundrlausum orðum, en skáldskapr var honum svá tiltækr, at hann mælti af tungu fram svá sem annat mál“. Svo segir í þætti Sighvats. Að vísu fer Sigurður sjaldan út í erfiðar rímþrautir eins og Sighvatur og rímnaskáldin á seinni öldum. Þannig hefi ég hvergi orðið var við dróttkveðið eða hrynhent, né heldur hagkveðlingahátt eða sléttubönd. En til þess liggja nokkrar ástæður. Fjöldi af bestu eða markverðustu kvæðum Sigurðar eru um mannfélagsmál, veilur þess og vankanta. Boðskapur þesskonar kvæða mundi ekki njóta sín í afardýrum leikandi háttum.

Kvæði um þjóðfélagsbresti geta verið nauðsynleg og ná oft tilgangi sínum, en jafnskjótt og kýlin, sem þau stinga á, eru læknuð, eru kvæðin vanalega gleymd. sem dæmi má nefna Skyrtusöng Thomasar Hood, sem Sigurður þýddi meistaralega. Nú er það kvæði naumast skiljanlegt, síðan saumakonurnar náðu í töglin og hagldirnar með verkamannafélögunum, sem sett geta framleiðendunum stólinn fyrir dyrnar. Slík saumakona, sem kvæðið getur um, mundi nú raka saman peningum fyrir yfirvinnu, og ekki vera talin aumkvunarverð.

Sigurður þýðir yfirleitt vel — þó stundum ekki nákvæmlega, en hann fylgir jafnan frumháttunum og með því anda og tilgangi höfundanna. Óþarflega finst mér þó margar þýðingar í þessari bók í hlutfalli við frumortu kvæðin, og kem ég þá óbeinlínis inn á þá braut, sem hefir jafnan verið mér þyrnir í augum. En það er hið svonefnda **úrval**, sem þessi eða hinn tekur sér vald til að gjöra af verkum annara, oft að höfundunum forspurðum, ef þeir eru á lífi, en annars í trássi við almenningsálitið og alla skynsemi.

Oft heyrir maður talað um, að setja þurfi lög, sem leyfi eftirlit með og takmörkun á útgáfu bóka, og er þá vanalega átt við það, sem börnum og unglingum er ætlað til lesturs. Varla þarf ég að taka það fram, að ég er á móti allri takmörkun prentfrelsis. En væru slík lög samþykt, þá vildi ég hafa þar grein, sem bannaði allar eftirlitslausar styttingar eða „úrval“ af verkum annara en þeirra sjálfra, sem að útgáfunni standa. Skólaljóð mættu vera undanskilin, og þó því aðeins, að nefnd skálda réði valinu.

Valið í þessa bók er sjálfsagt eins gott og gengur og gerist, en nefnt gæti ég óefað kvæði, sem að mínu áliti standa framar sumu því sem þar stendur. Því sleppi ég nú samt, því annars væri ég að taka mér það dómsvald, sem ég tel öðrum óheimilt.

Ekki get ég varist þeirri hugsun, að minna hefðu útgefendur þessarar bókar varla átt að gera, en að gefa út heildarútgáfu af kvæðum Sigurðar, frumortum og þýddum, úr því að þeir gerðu nokkuð á annað borð. Með þessu kveri er að líkindum loku skotið fyrir, að það verði nokkurn tíma gjört, og er það slæmt.

Bókin er vel prentuð, vel bundin og fremur smekkleg í frágangi. Þó er þar einn ljóður á: Fyrsta blaðsíða ljóðanna byrjar í vinstri hendi, sem er brot á öllum góðum og viðteknum aldagömlum prentreglum. Það var líka eins þarflaust og það var smekklaust, því síðasta blaðsíða bókarinnar er auð.

Tvær góðar myndir af höfundinum eru ásamt inngangi útgefanda fremst í bókinni. Önnur frá yngri árum, hin líklega tekin fyrir skemstu.

**KVÖLDVAKA**
**missirisrit**
**Ritstjóri**
**Snæbjörn Jónsson**

Þetta er nýtt rit, sem hóf göngu sína á árinu 1951, og eru nú út komin bæði heftin. Einkunnarorð þess eru á ensku: „Without fear or favor“, sem líklega má þýða: Án ótta eða ívilnunar. Ritið er í meðalstóru bókarbroti, og er það í samræmi við kreddu ritstjórans, að íslenskar bækur nú á tímum séu of stórar í broti, svo að smekkleysa sé að — kallar það þursabrot. Er þar langt bil á milli, þess og pésabrotsins gamla.

Kvöldvaka er öll prentuð í smáu letri og gefur því meira lesmál en mörg rit í stærra broti. Hún finnur líka oft og með réttu að kæruleysi í frágangi bóka og er þar að mörgu fyrirmynd, en þó hafa henni orðið á smáslys, t. d. hafa Síðufyrirsagnir (rennilínur) að ofan bringlast í prentun á nokkrum stöðum, og í lesmáli a. m. k. á einum stað.

Niðurlag á bls. 128

# Þrítugasta og annað ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var sett í Good Templarahúsinu á Sargent Avenue í Winnipeg, 26. febrúar 1951 af forseta þess, séra Philip M. Péturssyni, kl. 9.30 f. h. og hófst með því að sunginn var sálmurinn nr. 38 í íslenzku sálmabókinni „Guð minn þér ég þakkir segi". Svo var bæn flutt af séra Philip M. Péturssyni. Að lokinni bænagjörðinni var sálmurinn nr. 23 sunginn, en Gunnar Erlendsson spilaði undir. Ritari las þingboðið, eins og það hafði verið birt í íslenzku blöðunum. Að því loknu setti forseti þingið, og flutti ávarp sitt.

**Ávarp forseta Þjóðræknisfélagsins**

Háttvirtu, heiðruðu þingfulltrúar og gestir:

Í byrjun þessa 32. þings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, vil ég í nafni félagsins bjóða alla gesti og fulltrúa velkomna á þingið og láta þá ósk í ljósi, að þingið megi verða með hjálp, aðstoð og samvinnu ykkar allra, bæði skemtilegt og afkastamikið, eins og þing okkar hafa flest öll verið. En áður en ég ræði nokkuð annað, verð ég að gera grein fyrir því, að þing okkar er haldið í febrúarmánuði enn einu sinni þrátt fyrir tillögu, sem samþykt var á síðasta þingi um að breyta þingtímanum frá febrúar til júní. Og í þeirri greinargerð vil ég lesa bréf, sem sent var til allra deildarforseta sem skýringu á breytingunni, og sem kom einnig út í blöðunum. Bréfið skýrir sig sjálft og er á þessa leið:

Kæri vinur og félagsbróðir:

Okkur þykir fyrir því, að þurfa að tilkynna þér og félögum þínum, að enn hefir ekki tekist að fá staðfestingu ríkisritara Canada á breytingunni, sem gjörð var á þingsetutíma þjóðræknisþingsins á síðasta þingi þess, og erum því knúðir til að halda næsta þing eins og verið hefir, í febrúar, þetta ár, og biðjum þig og félaga þína að virða á betri veg, að svona hefir farið.

Við getum fullvissað ykkur um, að hér er ekki um neina fordild að ræða frá hálfu stjórnarnefndar félagsins, því að hún gerði ráðstafanir fyrir því strax að síðasta þingi loknu, að breytingin yrði framkvæmd. Aðalástæðan fyrir því að svona hefir farið, er sú, að lögmaður Þjóðræknisfélagsins var í burtu austur í Evrópu nálega alt síðastliðið sumar og þegar að hann kom heim aftur varð hann að ganga undir geysimikinn uppskurð og er nú nýkominn á ról aftur.

Kæru félagsbræður, við biðjum ykkur að virða alt þetta á betri veg og styðja að því, að þetta þing megi verða okkur öllum til sóma eins og þið hafið gjört að undanförnu. Við teljum lítinn vafa á, að breytingin verði löghelguð fyrir þingið 1952.

Með bestu óskum,

Virðingarfylst,

**P. M. Pétursson,** forseti
**J. J. Bíldfell,** ritari

Breytingin, sem hér er umrædd var í 24. lagagrein félagsins, sem hljóðar á þessa leið: **„Ársþing félagsins skal háð í febrúarmánuði ár hvert, á þeim stað og tíma, sem félagsstjórnin ákveður".** Þetta er fyrsta setning greinarinnar og varð breytingin á henni einni. Sú breyting hljóðaði á þessa leið: **„Ársþing Þjóðræknisfélagsins skal haldið á þeim stað og tíma, sem hvert þing ákveður fyrir fram".** Þessi breyting, samkvæmt 28. lagagrein, **varð að fá samþykt ríkisritara Canada.** Og í því tilfelli að sú samþykt fengist, var önnur samþykt gerð í fyrra, um stað og tíma, þar sem tekið var fram, að staðurinn ætti að vera Winnipeg, og tími, — fyrsta vika júnímánaðar. En nú var samþyktin ekki komin frá ríkisritara, af þeirri ástæðu, sem tekin er fram í bréfinu, og þess vegna sáu nefndarmennirnir sér ekki annað fært en að hafa þingið á vanalegum tíma, í febrúarmánuði, og vonuðu að félags-

menn út um bygðir og hér í bænum virtu það við nefndina, og tækju þessa vanrækslu ekki of nærri sér. Svo er annað sem ber að athuga í þessu sambandi; það er réttur deilda, og þar með deildarinnar Frón í Winnipeg. Í tilætlaðri lagabreytingu er tekið fram að hvert þing eigi að ákveða stað og tíma næsta þings. Ef samþykkt væri að hafa þing á öðrum stað en í Winnipeg, þá væri deildin Frón beitt óréttlæti, því hún ein, af öllum deildum félagsins, eins og tekið er fram í 21. grein laganna, hefir ekki rétt til að veita fulltrúum né öðrum að fara með atkvæði inn á þing. Þannig, ef að þingið væri t. d. áMountain, hefði deildin Báran sitt fulla atkvæða magn, en Frón ekki nema eftir því, hve margir fulltrúar frá Winnipeg kæmu á þing. Af þessu skoða ég, að þegar um lagabreytingu er að ræða í sambandi við þingstað og tíma, þá verður óhjákvæmilegt að gera breytingu á 21. lagagrein um leið, og fella þar úr síðustu setninguna. En hér á þessu þingi verður sams konar tillaga gerð af fulltrúum Fróns.

En nú með þessum inngangi og þessari greinargerð, vil ég víkja að öðrum málum.

Árið hefir verið atburðaríkt ár, bæði heima fyrir og erlendis, í lífi vor einstaklinga, í starfi félagsins, í þjóðarmálum og alheimsmálum. Þar sem, í fyrra, er vér komum saman, áttu engar þjóðir í ófriði, eru nú sameinuðu þjóðirnar að gera tilraun, á erlendri strönd, að varðveita frið heimsins með hervaldi. Margar mismunandi skoðanir eru á þessum bardaga, bæði innan og utan þeirra þjóða, sem beinan þátt eiga í honum, og hafa sumir látið efasemd sína í ljósi um að þetta sé rétta eða besta aðferðin; hvort að sameinuðu þjóðirnar hafi ekki hlaupið á sig, eða hvort herforinginn, sem ræður hefir ekki tekið sér meira vald í hendur en til var ætlast, og ýmislegt annað í sama sambandi.

En hvað sem því líður, eru þúsundir manna, hermanna og saklausra og óháðra að bíða bana á spjótum stríðsguðsins. Og enginn getur verið hlutlaus. Hver einasti maður verður að glíma við sína eigin samvisku og ráðgera við sjálfan sig hvað sé, eða sé ekki ákveðnasta og vissasta leiðin til friðar, og hvort að sú aðferð, sem hann velur sér að styðja sé í samræmi við þá trú, sem hann játar í samræmi við vilja guðs!

í millitíðinni eru ungir og efnilegir menn, blómaval þjóðanna, að deyja erlendis.

Hér heima fyrir hefir árið líka verið atburðaríkt og að nokkru leyti róstusamt og hafa flestir bændur sem bæjarbúar fengið að kenna á því. Vorið kom seint og var kalt og þar af leiðandi gátu bændur ekki sáð í akra sína fyr en seinast í maí og fram yfir miðjan júnímánuð og e. t. v. seinna. Sumarið var kalt og haustið rigningasamt. Uppskeran var þess vegna miklu seinni en vanalega með þeim afleiðingum, sem allir þekkja.

Í Winnipeg og bæjunum með fram Rauðánni alla leiðina suður fyrir Grand Forks, — varð stórflóð, hið stærsta sem þekst hefir í Rauðárdalnum á þessum síðustu hundrað árum. Rauðáin flæddi út yfir bakka sína og fór alt á kaf beggja megin árinnar á næstum því hundrað mílna svæði. Hús í Winnipeg og með fram ánni stóðu á kafi í vatni, og langt var komið fram á sumar áður en hægt var að fara að vinna akra, en þá orðið of álíðið til að sá í þá. Og jafnvel þó að sáð væri og hveiti yxi, þá urðu miklar skemdir á uppskerunni vegna bleytu og óhagstæðrar tíðar um haustið.

Sem betur fór, býr meirihluti Íslendinga í Winnipeg í vesturbænum, en þangað náði flóðið ekki. Og þó að fáeinir Íslendingar yrðu fyrir skemdum á flóðsvæðinu, voru þeir tiltölulega mjög fáir. Ég frétti sunnan að frá Grand Forks, að Dr. Richard Beck og fjölskylda hans hefðu orðið að flytja sig tvisvar úr húsi sínu, **en okkur hér norður frá gafst lítill tími til að hugsa til annara, því hér var flóðið stórfeldara en á nokkru öðru svæði.**

Um mitt sumar skall fellibylur á í Winnipeg og urðu þá aftur töluverðar skemdir. En aftur sluppu Íslendingar furðu vel.

Innan félagsins hefir árið líka verið atburðaríkt ár, sem byrjaði með þinghaldinu í fyrra, einu af hinum bestu þingum, sem við höfum lengi haft.

En nú vil ég snúa mér að öðrum og þýðingarmeiri málum, og aftur, eins og í fyrra, þakka öllum mönnum, undantekningarlaust, sem þátt hafa átt í starfsemi félagsins og hjálpað við að styðja að málum þess og koma þeim í framkvæmd. Og þar tel ég ritara okkar með.

En ekki er annað hægt að segja, en að þetta hafi verið gott ár og framfara- og atburðaár mikið. Enn helst meðlimatala

félagsins miðað við það, sem áður hefir verið. Fáeinir bætast inn í töluna eftir því sem aðrir falla frá. En þeir, sem inn koma, sem nýir meðlimir, bæta aldrei upp að fullu fráfall þeirra, sem lengi og vel hafa unnið að félagsmálum, hvort sem er hér í Winnipeg, eða í deildum félagsins út um bygðir. Á þinginu fyrir einu ári síðan sat maður, sem lengi tók beinan þátt í starfi þess — í stjórnarnefnd og í milliþinganefndum, sem var stuðningsmaður barnablaðsins Baldursbrá og mikinn áhuga hafði fyrir öllum málum félagsins. — Tveim dögum eftir að þinginu lauk í fyrra varð hann bráðkvaddur, og þeir, sem höfðu setið þingið með honum, kvöddu með djúpum söknuði góðan félagsbróður. Ég á hér við **Bergthor Emil Johnson.** — Aðrir sem dáið hafa á árinu, sem þátt hafa tekið í þjóðræknismálum og lengi verið meðlimir félagsins eru: **Joseph B. Skaptason, Guðmundur Jónsson frá Húsey á Vogar, Guðný Stefanía Guðmundsson á Vogar, S. W. Melsted, Winnipeg, Einar Benjamínsson á Geysi, Halldór Halldórsson, Vancouver, S. Guðmundsson, Vancouver.**

Við minnumst þessara manna og kvenna í kærleika og þökkum fyrir vel unnið starf og margar góðar minningar frá liðinni tíð.

**Fundarhöld.**

Á árinu hefir stjórnarnefndin haft marga fundi, sjálfsagt um fjórtán eða fimtán. Og þar fyrir utan hafa verið aukasmánefndarfundir í sambandi við ýmislegt, sem stjórnarnefndin hefir haft með höndum. Þar að auki hefi ég, sem forseti félagsins, og aðrir nefndarmenn tekið þátt í fundum og samkomum innan og utan bæjar.

**Útbreiðslustarfsemi.**

Meðal þeirra funda og skemtana, sem ég hefi sótt í nafni félagsins utanbæjar, leyfi ég mér að nefna tvær samkomur á Lundar, 18. mars og 19. apríl; Íslendingadagshátíð á Mountain, N. Dakota, 16. júní; samkomu á Geysi, 28. júlí, undir umsjón deildarinnar „Esjan“, þar sem að Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins og Mrs. Ingibjörg Jónsson, vara-skrifari félagsins, voru mér samferða, og voru þau dómarar þar, er nokkur ungmenni tóku þátt í framsagnar-kepni. Á Íslendingadeginum flutti ég ræðu og tók þátt í guðsþjónustu ásamt séra Rúnólfi Marteinssyni, sunnudaginn, 6. ágúst, er minst var 75 ára landnáms Íslendinga í Nýja-Íslandi. Ég ferðaðist um nokkrar bygðir með Páli Kolka lækni, sem ég minnist frekar síðar og flutti stutt ávarp á samkomu Icelandic Canadian Club núna í janúarmánuði síðastliðnum. Ég flutti erindi í vor sem leið á Frónsfundi, og var útdráttur úr því birtur á prenti, því að efnið fjallaði um 75 ára landnámsafmæli Íslendinga hér í Manitoba. Þar að auki hefir Dr. Richard Beck, fyrrv. forseti félagsins, eins og áður, bæði í ræðu og riti, unnið að málum þess og haldið áfram kynningarstarfi sínu í þágu Íslands og íslenskra bókmenta. Hann flutti, eins og kunnugt er, aðalræðuna á samkomu þeirri, sem deildin „Frón“ efndi til í tilefni af 400 ára ártíð Jóns biskups Arasonar. Einnig flutti hann kveðju á hátíð þeirri, sem deildin „Báran“ að Mountain hélt á lýðveldisdegi Íslands 17. júní og ávarp á fyrirlestrarsamkomu Páls V. G. Kolka læknis, er sama deild stóð að þar í bygð. Dr. Beck flutti einnig á árinu ræður um íslensk efni á ensku bæði á samkomum og í útvarp, meðal annars á ársfundi fræðafélagsins „The Society for the Advancement of Scandinavian Study“, sem haldinn var á St. Olaf College í Northfield, Minnesota, en þar var hann jafnframt kosinn forseti þess félagsskapar, og flytur kveðjur hans hér á þinginu.

Þá kom einnig út snemma á síðastliðnu sumri hjá Cornell University Press hið mikla og merka rit dr. Becks, **History of Icelandic Poets: 1800—1940**, sem vakið hefir mikla athygli og fengið ágæta dóma fræðimanna og rithöfunda beggja megin hafsins. Ennfremur kom út á Íslandi síðastliðið haust úrval úr ræðum dr. Becks um þjóðræknismál og ritgerðum hans um íslenskar bókmentir, **Ættland og erfðir,** sem einnig hefir fengið mjög góða dóma beggja megin hafsins. Stendur rit þetta mjög nærri félagi voru og starfi þess, því að þar eru bæði kaflar úr ræðum, sem fluttar voru á þingum þess í forsetatíð höfundar, og aðrar ræður, sem fluttar voru á samkomum deilda félagsins eða öðrum íslenskum samkomum beggja megin landamæranna og eins úr Íslandsferð hans á lýðveldishátíðina. Margt annað hefir hann einnig ritað á árinu um íslensk efni í íslensk og amerísk blöð og tímarit.

**75 ára landnámsminning.**

Svo ber að minnast hátíðahaldsins sem stjórnarnefnd félagsins stóð fyrir í haust, 12. október, er haldið var upp á 75 ára afmæli landnámsins hér í Manitoba og komu fyrstu Íslendinga til Winnipeg í októbermánuði árið 1875. Einnig ber að minnast hátíðahaldsins 7. ágúst á Gimli í sama tilgangi, undir forustu og leiðbeiningu forseta Íslendingadagsnefndarar, séra Valdimars J. Eylands. Þar voru líka ágætir gestir komnir til að heiðra minningu landnemanna og landnámsins á viðeigandi hátt, eins og t. d. Pálmi Hannesson, rektor Mentaskólans í Reykjavík, og ekki er annað hægt að segja en að það hátíðahald, sem bygðirnar allar í Nýja-Íslandi áttu þátt í, var eitt af hinum bestu sem haldið hefir verið á Gimli, og á forstöðunefndin þakkir fyrir.

Á samkomunni í Winnipeg, sem Þjóðræknisfélagið hélt, höfðu menn þá ánægju og heiður að hlusta á annan góðan og kærkominn gest, Hannes Kjartansson, aðalræðismann Íslands í New York. Hann flutti Íslendingum hér vestra kveðjur og árnaðaróskir heimaþjóðarinnar og las upp skeyti frá forseta Íslands, Sveini Björnssyni.

Þjóðræknisnefndin hélt heiðursgestinum og frú hans samsæti, til að fagna þeim og þakka þeim komuna. Allir voru hið hæsta ánægðir með minningarathöfnina og gesti okkar báða. Enda var skemtiskráin góð og ræðurnar sem fluttar voru af J. J. Bíldfell og Wilhelm Kristjánssyni hinar ágætustu.

**Gestir.**

Þeir gestir, sem hér hafa nú verið nefndir, voru aðeins fáeinir af mörgum, sem heimsóttu okkur á árinu. Sjaldan höfum við tekið á móti jafn mörgum mikilsmetnum gestum á jafn stuttu tímabili, og þetta ár. Og hér sést hve mikla þýðingu á þessu sviði einu Þjóðræknisfélagið hefir. Það er að nokkru leyti móttökunefnd gesta sem hingað ber að, hvort sem er frá Íslandi eða annars staðar. Og án félagsins er ekki auðvelt að vita hverjir eða hvaða félag annað gæti gert það á eins góðan eða viðeigandi hátt. Mér er sagt að Þjóðræknisfélagið á Íslandi hafi verið stofnað til þess að vinna samskonar starf þar og getum við talið okkur það mikinn heiður að hafa verið fyrirmyndin í því máli.

Gestakoman hingað byrjaði með þinginu fyrir ári síðan, er þinggestur okkar var Gunnar Pálsson, söngvari, frá New York. Svo liðu nokkrir mánuðir þar til Pálmi Hannesson, rektor Mentaskólans í Reykjavík, kom til Winnipeg til að hitta Íslendinga hér og kynnast þeim, og tala á Íslendingadeginum á Gimli. Nefndin efndi til samsætis fyrir hann og gladdi það okkur að geta gert það.

Næst kom mikilsmetinn mentafrömuður til Winnipeg, á fund forseta Manitobaháskóla til að ræða nokkur mál í sambandi við hinn fyrirhugaða kenslustól í íslenskum fræðum, Dr. Alexander Jóhannesson, forseti Háskóla Íslands. Þjóðræknisnefndin efndi til almenns samsætis á Royal Alexandra Hotel, í heiðursskyni við hann og þar veittist Íslendingum sá heiður og ánægja að hlusta á forsetann, sem er einn af hinum fremstu í þekkingu á tilveru og myndun nútíma tungumála.

Næst á ferð voru aðalræðismaður Hannes Kjartansson og frú, sem ég hefi áður minst. Og einum mánuði seinna kom hingað maður í heimsókn til skyldfólks síns en sem Þjóðræknisfélagið, tímaleysis vegna, tók ekki á móti, þó við hjónin hefðum þá ánægju af að bjóða honum heim til okkar, og mér gafst tækifæri til að endurnýja gamlan kunningsskap. Þessi maður var Einar Sæmundsson, aðstoðar skógræktarstjóri á Íslandi. Hann er bróðursonur Mrs. Sigríðar Árnason, ekkju séra Guðmundar heitins Árnasonar. Hann var á leið heim aftur úr ferð til Alaska, þar sem hann safnaði fræi af ýmsum trjátegundum til gróðursetningar á Íslandi.

Næsti gestur hér á ferð var Páll Kolka læknir frá Blönduósi, sem flest öllum hefir gefist tækifæri að hitta og kynnast. Og geri ég grein fyrir komu hans, ferðum og dvöl hér undir öðrum lið.

Og síðastur á ferð hér var góður og vinsæll maður, sem heimsótti okkur fyrir sjö árum, er haldið var upp á 25 ára afmæli félagsins, sem fulltrúi Íslands-stjórnar, séra Sigurgeir Sigurðsson, biskup yfir Íslandi. Það er varla þörf á að minnast hve öllum þótti vænt um komu hans nú aftur, og fögnuðu honum er hingað var komið, og ekki síst vegna þess að frú Guðrún kona hans var með í förinni. Eins og menn muna, messaði biskupinn í báðum kirkjum á jólunum, og gladdi fólk hér vestra með nærveru sinni á þeim tíma. Þau hjónin stóðu ekki við nema aðeins eina viku, og hurfu svo suður til Bandaríkjanna, þar sem þau voru um tíma gestir Árna Helgasonar, hins góðkunna atorkumanns og ferðuðust með honum suð-

ur í ríki og eftir því sem ég hefi frétt alla leið suður í Mexico. Það var ósk biskupsins, á meðan að hann stóð hér við, að engin fjölmenn samsæti yrðu haldin honum. Hann var að leita sér heilsubótar og vildi geta hvílst eftir því sem tækifæri gæfist. En nefndinni fanst hún ekki mega sleppa biskupshjónunum héðan án þess að sýna þeim virðingu á einhvern hátt og tók það ráð að bjóða þeim á miðdagsverð með örfáum öðrum mönnum, sem tókst vel. Og er þau hjónin fóru héðan, hljómuðu heillaóskir og blessun allra Vestur-Íslendinga í eyrum þeirra.

Og nú þegar ég er að telja upp samsæti, sem haldin voru á árinu, má ekki gleyma samsæti, sem nefndin hélt skrifara sínum, Jóni J. Bíldfell á áttugasta afmæli hans í sumar sem leið. Maður ætti bágt með að trúa því að jafn fjörugur og vel útlítandi maður sem hann er, gæti verið það gamall. En það er tilfellið. Og samnefndarmenn hans, allir miklu yngri en hann, vildu heiðra hann á afmælinu, og gerðu það, og afhentu honum dálítinn grip til minningar um daginn.

**Koma Páls Kolka læknis.**

Í haust gerðist sá viðburður í starfsemi félagsins, sem veitti félagsmönnum, helst þeim úti um bygðir, sjaldgæft tækifæri að sjá og heyra og kynnast manni frá Íslandi, sem var á vegum Þjóðræknisfélagsins og að vinna þjóðræknisstarf.

Það hefir oft verið rætt á þingum og á stjórnarnefndarfundum, um hve æskilegt það yrði að fá mann heiman að frá Íslandi til að ferðast um íslensku bygðirnar, til deilda og e. t. v. til annara félaga, til að vekja áhuga manna fyrir málum félagsins og styrkja böndin á milli heimaþjóðarinnar og Íslendinga vestan hafs.

Snemma s.l. sumar gafst okkur tækifæri að fá þess konar mann sem skyldi ferðast um, flytja fyrirlestra og sýna myndir. Það kom boð frá Íslandi, frá Páli Kolka lækni, skáldi og rithöfundi, sem var að fara sem fulltrúi læknastéttarinnar á Íslandi á alheims læknaþing í New York síðari hluta októbermánaðar, um að ferðast á vegum þjóðræknisfélagsins um íslensku bygðirnar og vinna þetta verk. Og þáði nefndin boðið. Hún kostaði lækninn hingað vestur og um íslensku bygðirnar. Sumstaðar tókust samkomurnar ágætlega, en á örfáum stöðum ekki eins vel og æskilegt hefði verið. En árangurinn af þeim ferðum sést betur er tímar líða og tækifæri gefst til að dæma um þær betur.

Seinna á þinginu verður skýrsla læknisins lesin upp, og mönnum veitt tækifæri til að ræða hana, og veita athugasemdum þeim er læknirinn gerir og bendingum athygli.

Á ferðum læknisins voru ýmsir nefndarmenn honum samferða og á sinn eigin kostnað. Ég fylgdi honum til Gimli, Lundar og Hayland. Grettir Eggertson fór með honum til Glenboro, og Grettir Jóhannsson, gjaldkeri, til Mountain, N. D. Aðrar ferðir sem hann fór voru til Árborgar, þangað sem séra Jóhann Friðriksson fylgdi honum; til Riverton, Selkirk og vestur á strönd, til Blaine, Seattle og Vancouver. Og í bakaleiðinni kom hann við í Wynyard, Leslie og Churchbridge í Sask. En inn á milli ferða hans, fór hann á læknaþingið í New York, og líka á læknaþingið í Cleveland, sem gestur Dr. Thorlakson. Rétt fyrir jól hélt nefndin lækninum dálítið samsæti og afhenti honum örlitla jólagjöf; og í byrjun febrúarmánaðar var efnt til almenns samsætis áður en hann fór héðan til að veita mönnum tækifæri til að kveðja hann og þakka honum komuna. Við vitum að nú höfum við enn annan vin á Íslandi sem hugsar hlýtt til okkar hér vestra, alveg eins og ég veit að margir um allar íslensku bygðirnar hér, sem fengu að hlusta á hann og kynnast honum, hugsa hlýtt til hans.

Þetta var tilraun, sem ég vona að beri góðan árangur. En það verður að miklu leyti undir deildunum sjálfum komið hvort hún hafi það eða ekki, og hvort að hægt verði að réttlæta þann töluverða kostnað, sem hún hafði í för með sér. Það verður að skiljast, að þó að aðalnefndin hafi ráðstafað þessari tilraun, þá er deildarstarfsemin í höndum deildarmanna. Stjórnarnefndin hefir altaf viljað sýna samvinnu tilraunir við deildirnar og gerir það, hygg ég í framtíðinni. En það er og verður verksvið allra þjóðræknismanna, innan og utan bæjar að taka saman höndum til að efla sem best allan tilgang sameiginlegra mála okkar.

**Samband við Ísland.**

Eitt, sem koma Páls Kolka læknis hingað vestur hefir gert, og sem ekki hefir verið tekið fram að ofan, er að styrkja böndin milli okkar Vestur-Íslendinga og Íslands. Hann kom með eitthvað af andrúmslofti gamla landsins með sér, inn í hverja bygð, og inn á hvert heimili, sem hann heimsótti. Og eins má segja um hvern einasta gest af þeim öllum sem

heimsóttu okkur á þessu liðna starfsári. Við eigum marga góða vini nú á Íslandi vegna þessarar persónulegu viðkynningar. Og ég veit að þeir hafa það á tilfinningunni að hingað verða þeir ævinlega kærkomnir gestir.

Ekki síst þess, sem hefir styrkt böndin við heimaþjóðina, er koma Dr. Alexanders Jóhannessonar hingað s.l. haust á vegum Manitobaháskólans í sambandi við stofnun kenslustólsins í íslenskum fræðum. Hann er í samráði við Dr. Gillson háskólaforsetann hér við að koma þeim kenslustól á framfæri og er það okkur öllum mikið ánægjuefni að vita af þessum samtökum og þessari samvinnu, sem getur ekki annað en leitt af sér góðan árangur. Og með þeirri samvinnu er verið að styrkja bönd, ekki aðeins á milli Íslendinga austan og vestan hafs, heldur líka á milli Íslands og hérlendra manna, sem hefir meira gildi en margir gera sér grein fyrir.

En auk þeirra, sem styrkt hafa böndin við Ísland með komu sinni hingað vestur, eru fulltrúar, sem héðan hafa farið til Íslands. Og þó að þeir séu nokkrir tel ég aðeins upp sjö, sem ég veit af: tvenn hjón, Dr. og Mrs. S. E. Björnsson, sem héðan fóru í fyrra og dvöldu á Íslandi nokkra mánuði, og hr. Árna Eggertson lögfræðing og frú hans, sem fóru heim í Eimskipafélags erindum. Mrs. Björnsson kemur hér seinna fram á þingi með kveðjur frá ýmsum félögum og einstaklingum til Þjóðræknisfélagsins; og Árni Eggertson, sem einn af nefndarmönnum okkar, gerir það áreiðanlega seinna, en vegna fjarveru í embættiserindum getur hann ekki verið staddur á þessu þingi.

Einnig vildi ég nefna Halldór Swan, sem varð fyrir óvæntu veikindakasti og lá á spítala um tíma á Akureyri. Hann hefir hrest síðan nógu mikið til að geta þolað ferðalag hingað aftur til Winnipeg, en er ekki enn orðinn albata. Ég veit að allir taka undir með mér í því, að óska honum góðs bata. En með förinni heim hitti hann ættingja og vini og endurnýjaði gömul vinabönd. Og hver sem það gerir er að vinna þjóðræknisstarf. Líka vil ég minnast á Friðrik P. Sigurðsson frá Riverton, sem dvaldi sumarlangt á Íslandi og lét gefa út kvæðabók þar; og Ólaf Hallsson kaupmann frá Eriksdale. Ég þakka þeim öllum, bæði þeim sem ég hefi nefnt og þeim, sem ekki hafa nafngreindir verið, fyrir alt, sem gert hefir verið á þessu sviði.

Svo á árinu voru tveir menn hér meðal okkar, sem heiðraðir voru af stjórninni á Íslandi, sem var öllum Íslendingum hér mikið gleðiefni. Þetta telst varla undir liðnum samvinna við Ísland, en ég minnist þess hér vegna þess, hve það sannar að böndin eru sterk á milli okkar Austur- og Vestur-Íslendinga. Hr. Gísli Jónsson og Árni Sigurðsson, listamaður, voru sæmdir riddarakrossi af Íslandsstjórn.

**Útgáfumál.**

Í sambandi við útgáfumál Þjóðræknisfélagsins, er lítið annað að segja, en sagt var í fyrra. Haldið er enn áfram að gefa út Tímaritið undir umsjón og stjórn þess ágæta ritstjóra, Gísla Jónssonar, sem hefir ár hvert, síðan að hann tók við stjórn á því, vandað sig á því, og séð um að það væri með sömu ágætum og það hefir altaf verið, og verið félaginu til mikils heiðurs og sóma. Ég þakka honum enn einu sinni vel unnið starf, og veit að allir samþykkja það með einum rómi. Og fyrir auglýsingasöfnun í ritið, vil ég, fyrir hönd félagsins, votta Mrs. P. S. Pálsson þakklæti okkar allra, því án auglýsinga gætum við ekki gefið Tímaritið út. Ég vildi minna menn á það, að það er á kostnað auglýsenda að við getum haldið áfram að gefa ritið út og gefið það ókeypis með hverju ársgjaldi til allra meðlima félagsins. Ég get ekki stilt mig um að geta þess, að það er í raun og veru skömm fyrir Íslendinga að heimta það að nokkur stjórnarnefnd leggi á sig það, sem nefnd félagsins þarf að leggja á sig til að halda félaginu við, og svo heimta að hún gefi út Tímaritið í viðbót, og þeir borgi sem meðlimagjald aðeins einn ómerkilegan dollar. Í fyrra var tillaga feld um að hækka gjaldið upp í tvo dollara. Á þessu ári hefir stjórnarnefndin verið óspör á sjálfri sér til að vera félaginu og Íslendingum til sóma, og oft þurft að gera persónuleg fjárútlát. Mér finst það varla vera að skipta verkum á réttmætan hátt, að heimta mikið af nefndinni en borga lítið sjálfir. Hið minsta sem meðlimir gætu gert væri að hjálpa nefndinni til að vinna verk sín og standa í skilum eins og sæmir nefnd mikilsvarðandi félags, með því að hækka gjaldið upp í tvo dollara á ári, allra minst. Það hjálpaði til að sýna virðingu á störfum ritstjóra okkar við útgáfu

Tímaritsins og líka það, að við værum ekki algjörlega upp á ölmusugjafir annara manna komnir sem félag.

**Háskólamál.**

Nú kem ég að lið, sem hvernig sem menn líta á hann í dag, mun í framtíðinni verða talinn íslendingum meira til heiðurs og sóma en næstum því nokkuð annað eitt verk, sem þeir hafa unnið. Það er háskólamálið. Ég geri ráð fyrir, að nú aftur á þessu þingi, eins og á öðrum þingum, komi háskólanefndin með skýrslu inn á þing, og vil ég því fara sem fæstum orðum um það mál. En ég verð að lýsa ánægju minni yfir hve nefndinni hefir tekist vel á undanförnu ári í að nálgast takmarkið, sem sett hefir verið. Nú er í beinum fjárframlögum komið í sjóðinn í höndum háskólans meira en $150.000 dollarar og um $170.000 alls í sjóði og í loforðum. Og vegna þess hve málinu hefir miðað vel áfram gerir forseti háskólans hér ráð fyrir að geta gefið markverða yfirlýsingu seinna í vor. Nefndin hefir auglýst að það verði gert á samkomu, 30. mars í Playhouse Theatre hér í borg, þegar söngkonan góðkunna og fræga, María Markan Östlund, og píanósnillingurinn, Agnes Helga Sigurðsson, koma báðar fram til að skemta undir umsjón háskólanefndarinnar. En þetta verður áreiðanlega auglýst í skýrslu nefndarinnar auk annars í sambandi við það. Læt ég því þessa stuttu yfirlýsingu nægja.

**Íslenskukensla.**

Um íslenskukenslu hér í Winnipeg þetta ár er ekki margt að segja. Eins og allir muna, varð að fresta alls konar samkomum og öðrum athöfnum í vor sem leið vegna flóðsins, og þar á meðal var hin árlega skemtun Laugardagsskólans, sem búið var að undirbúa mjög vandlega og selja aðgöngumiða að. Vegna flóðsins var hætt að starfrækja skólann miklu fyr en vanalega, og með því og vegna samkomufrestsins, minkaði áhuginn hjá börnunum svo, að þegar byrjað var aftur í haust, voru miklu færri börn en áður og árangurinn af starfinu minni. Gert hefir verið ráð fyrir að reyna að hafa samkomu aftur í vor, og er verið að æfa börnin til þess, og er vonast eftir að það takist vel. Kennararnir eiga miklar þakkir skilið fyrir starf sitt og nota ég þetta tækifæri til að birta þakklæti Þjóðræknisfélagsins til þeirra. Kennarar hafa verið þetta ár: Mrs. Ingibjörg Jónsson; Mrs. Ragnheiður Guttormsson.

Út um land, meðal deilda, því miður, veit ég ekki hvað hefir gerst í þessu máli nema í Árborg, þar sem árleg samkepni í framsögn fór fram, eins og ég gat um áður, og fórum við þangað, Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Mrs. Ingibjörg Jónsson, vararitari félagsins, og ég, til að dæma á milli þeirra ungmenna, sem tóku þátt í samkepninni, sem var hin ágætasta. Hún fór fram í hinu nýja samkomuhúsi Geysis-bygðar, og stýrði forseti deildarinnar „Esjan" samkomunni, hr. Gunnar Sæmundsson.

En um kenslu annars staðar veit ég ekki, og bið velvirðingar á því að hafa gleymt nokkrum stöðum, sem halda kenslu uppi, ef svo skyldi vera.

**Ný mál.**

Svo kem ég að enda þessa ávarps, og undir þessum lið „Ný mál" tel ég upp tvö atriði. Hið fyrsta er minnisvarðinn sem Canadastjórn sá sér fært að reisa til minningar um Stephan G. Stephanson skáld í Red Deer í Alberta s. l. sumar. Þetta er alveg sérstætt í sögu þessarar þjóðar, því aldrei fyr, er ég best veit, hefir nokkuð skáld þessa lands verið heiðrað á sama hátt, á hvaða tungu sem það hefir ort. Þjóðræknisfélagið fékk sérstakt boð til að senda fulltrúa vestur til að vera viðstaddur við athöfnina, en enginn nefndarmanna gat farið og lét nefndin sér því nægja að senda skriflegt ávarp með próf. Skúla Johnson, sem var aðalræðumaðurinn við afhjúpun minnisvarðans.

Ræða próf. Skúla hefir birst í blöðunum. Hann flutti einnig kveðju okkar og hefir nefndin fengið þakkarbréf fyrir, frá forstöðunefndinni, „Historical Sites and Monuments Board".

**Námsstyrkur.**

Á síðasta þingi var rætt um að veita námsmönnum, sem sýna sérstaka hæfileika í einhverri list, styrki til framhaldsnáms. — Milliþinganefnd var sett í þetta mál og kom hún með skýrslu inn á stjórnarnefndarfund um álit sitt, en þar sem nefndin var milliþinganefnd var áliti hennar vísað til þessa þings og verður hér að sjálfsögðu borið upp til afgreiðslu.

Nú er mál mitt langt orðið og tími

kominn til að byrja á þingstörfum og afgreiða þau mál, sem liggja fyrir. En samt hefi ég það á samviskunni að enn sé eftir atriði, sem ég hefði átt að minnast. Ég vona að svo sé ekki. En ef svo er, þætti mér vænt um, ef einhver góður félagsbróðir vildi minna mig á, svo að ég gæti bætt það upp, ef ekki nú í þingsetningarávarpi þessu, þá í hinu prentaða formi, sem það birtist í að ári liðnu í Tímaritinu.

Að svo mæltu býð ég þinggesti og fulltrúa alla velkomna. Ég vona að þetta þing verði gott þing og að alt, sem við gerum verði okkur og íslenska þjóðarbrotinu hér vestra til heiðurs og sóma. Markmiðið er, þegar alt kemur til alls, að vinna að heill þjóðar vorrar, — þjóðar vorrar hér vestra, hvort sem er Bandaríkin eða Canada, og þjóðar vorrar fyrir handan hafið.

Með þetta í huga, segi ég þetta þrítugast og annað ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi sett, og bið þingheim að taka til starfa.

Dr. Beck lagði til að forsetaskýrslan sé viðtekin með þakklæti, tillöguna studdu ýmsir, og var hún samþykt.

Dr. Beck lagði til að forseti skipi þrjá menn í kjörbréfanefnd. Forseti skipaði þessa menn í nefndina: Jón Jónsson, Harald Ólafsson, og Mrs. P. S. Pálsson.

Dr. Beck lagði til, og Gísli Jónsson studdi, að forseti skipi þriggja manna dagskrárnefnd. Tillagan var samþykt, og forseti setti séra Jóhann Friðriksson, Dr. Beck, og Mrs. H. Pálsson í nefndina.

Tíu mínútna fundarhlé gefið, til viðtals við blaðamenn.

Þegar tekið var til fundarstarfa aftur, lagði féhirðir, hr. G. L. Jóhannsson fram skýrslu sína og las, og lagði til að skýrslunni sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar þingsins. Var sú tillaga studd af Jóni Jónssyni og samþ/kt.

Fjármálaritari Guðmann Levy lagði fram og las sína skýrslu, og lagði til að henni væri vísað til væntanlegrar fjármálanefndar þingsins. Jón M. Ólason studdi tillöguna og var hún samþykt.

Í fjarveru eigna-umboðsmanns, las G. L. Jóhannsson hans skýrslu og lagði til, að henni væri vísað til væntanlegrar fjármálanefndar þingsins. Th. J. Gíslason studdi. Samþykt.

**Reikningur féhirðis**

Yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 16. febrúar 1950 til 19. febrúar 1951.

| | | | |
|---|---|---|---|
| TEKJUR: | | | |
| Á Royal Bank of Canada, 16. febr. 1950 | | | $2,267.45 |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld ...... | | $ 406.30 | |
| Fyrir auglýsingar í XXXI. árg. Tímaritsins | | 1,638.32 | |
| Yfirfærsla á innstæðu á Íslandi | | 270.00 | |
| 652 Home Street | $1,600.00 | | |
| Fyrningarsjóður | 600.00 | | |
| | | 1,000.00 | |
| Allar tekjur á árinu | | | $3,314.62 |
| Samtals | | | $5,582.07 |
| ÚTGJÖLD: | | | |
| Ársþingskostnaður 1950 | | | $ 336.46 |
| Ársþingskostnaður 1951 | | | 109.62 |
| **Tímarit:** | | | |
| Ritstjórn og ritlaun | | $262.00 | |
| Prentun (eftirstöðvar) ........... | | 311.78 | |
| Auglýsingasöfnun | | 409.58 | 983.36 |
| Útbreiðslustarfsemi Páls Kolka læknis | | | 813.78 |
| Til laugardagsskólans í Winnipeg ............... | | | 108.78 |
| **Ýmislegt:** | | | |
| Bankagjöld, frímerki o. fl. ........... | | | 39.80 |
| Prentun ........................... | | | 19.98 |
| Til móttöku gesta o. fl. | | | 177.40 |
| 75 ára Landnáms-minningarsamkoma | | | 181.03 |
| Þóknun fjármálaritara | | | 40.98 |
| Keypt áhöld ..................... | | | 161.35 |

| | |
|---|---|
| Allur kostnaður á árinu | $2,972.54 |
| 19. febrúar 1951. Á Royal Bank of Canada | 2,609.53 |
| | $5,582.07 |

**Eign:**

| | |
|---|---|
| Dominion of Canada Bonds, 3%, Oct. 1, 1963 | $ 600.00 |

**Inneign á Íslandi:**

| | |
|---|---|
| 1. febrúar 1949 | Kr. 11,613.41 |

(Fullnaðarskýrsla yfir viðskipti félagsins við Þjóðræknisfélagið á Íslandi á árunum 1949 og 1950 er ókomin, og verður því að fresta skilagrein á þeim viðskiptum).

**Grettir Leo Jóhannson**, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 19. febrúar 1951.

**Steindór Jakobsson**
**J. Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara**

Yfir árið 1950

INNTEKTIR:

| | | |
|---|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 69.00 | |
| Frá deildum | 333.80 | |
| Frá sambandsdeildum | 7.00 | |
| Ævifélagagjald | 15.00 | |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Burðargjöld undir bréf og Tímarit | | $ 18.50 |
| Afhent féhirði | | 406.30 |
| Alls | $424.80 | $424.80 |

**Guðmann Levy**, fjármálaritari

**STATEMENT**

**652 Home Street 1950**

RECEIPTS:

| | | |
|---|---|---|
| Rents collected, Jan. 1, to Dec. 31/50 | | $3,322.95 |

EXPENDITURES:

| | | |
|---|---|---|
| City of Winnipeg, Taxes | $ 494.24 | |
| Insurance | 35.00 | |
| Decorations, Repairs, Supplies | 233.65 | |
| Fuel | 430.88 | |
| Light & Power | 170.03 | |
| Water & Sewer Rates | 90.58 | |
| Expenses on a/c „Tímarit" sent to Iceland | 20.51 | |
| Management | 120.00 | |
| Sundry Expense | 4.25 | |
| Icelandic National League | 1,600.00 | |
| | $3,199.14 | |
| Credit Balance Dec. 31, 1950 | 123.81 | |
| | $3,322.95 | $3,322.95 |

Yfirskoðað og rétt fundið, 19. febrúar, 1951

**Steindór Jakobsson**
**Jóhann Th. Beck**

**Þingnefndarálit dagskrárnefndar**

Dagskrárnefndin leggur til, að fylgt sé hinni prentuðu dagskrá þingsins, sem er á þessa leið:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Skýrslur embættismanna
5. Skýrslur deilda
6. Skýrslur milliþinganefnda
7. Útbreiðslumál
8. Fjármál
9. Fræðslumál
10. Samvinnumál við Ísland
11. Útgáfumál
12. Kosning embættismanna
13. Ný mál
14. Ólokin störf og þingslit

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg, 26. marz 1951.

J. FRIÐRIKSSON
RICHARD BECK
KRISTÍN PÁLSSON

Formaður dagskrárnefndarinnar lagði til, og Dr. Beck studdi, að dagskráin sé samþykt. Samþykt.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Jón Jónsson lagði fram álit þeirrar nefndar er hljóðaði þannig, og lagði til, að það yrði samþykt til bráðabirgðar: Samþykt.

**Álit kjörbréfanefndar á þjóðræknisþingi 26. febrúar 1951**

„Báran", N. Dak.

| | |
|---|---|
| Dr. Beck | 17 atk. |
| J. M. Ólason | 17 — |
| H. Ólafsson | 17 — |
| B. Stevenson | 17 — |

„Esjan", Árborg

| | |
|---|---|
| S. Einarsson | 13 — |
| P. Stefánsson | 13 — |
| Mrs. Herdís Eiríksson | 13 — |
| Mrs. Jónína Einarsson | 13 — |
| S. Finnsson | 13 — |

„Brúin", Selkirk

| | |
|---|---|
| E. Vigfússon | 14 — |
| E. Magnússon | 15 — |
| T. Ísfeld | 13 — |

„Ísland", Morden.

| | |
|---|---|
| Th. G. Gíslason | 8 — |
| Mrs. Th. J. Gíslason | 7 — |
| J. Tómasson | 8 — |

„Snæfell", Churchbridge

| | |
|---|---|
| E. Sigurðsson | 13 — |

„Lundar", Man.

| | |
|---|---|
| Séra J. Friðriksson | 16 — |
| Mrs. L. Sveinsson | 15 — |
| O. Hallsson | 16 — |

Deildin „Gimli", Gimli, Man.

| | |
|---|---|
| H. G. Sigurðsson | 20 — |
| Mrs. H. G. Sigurðsson | 20 — |
| Sigurður Baldvinsson | 14 — |

Fundi var svo frestað, samkvæmt uppástungu frá Jóni M. Ólasyni, sem Ásta Sigurðsson studdi, til kl. 2 e. h.

Annar fundur þingsins settur kl. 2 e. h. Fundargjörningur frá fyrra fundi lesinn og samþyktur.

**SKÝRSLUR DEILDA:**

**Skýrsla deildarinnar „Báran" á Mountain, N. D. fyrir árið 1950**

Ársfundur Báru var haldinn í skólahúsinu á Mountain, N. D. þann 3. febrúar 1951 kl. 2.30 e. h. Þessi fundur var vel sóttur og fór ágætlega fram. Á honum voru eftirfarandi meðlimir Bárunnar kosnir í embætti fyrir árið 1951:

G. J. Jónasson, forseti
Haraldur Ólafsson, varaforseti
H. B. Grímsson, skrifari
O. G. Johnson, varaskrifari
Jóhannes Anderson, féhirðir
Stefán Indriðason, varaféhirðir
H. T. Hjaltalín, fjármálaritari
Páll Ólafsson, varafjármálaritari
Jón M. Ólason, skjalavörður.

Báran hélt þrjá almenna fundi á árinu 1950, auk ársfundar, og þrjá nefndarfundi. Allir þeir fundir voru heldur vel sóttir, og sumir ágætlega. Fóru vel fram og voru öllum til ánægju.

Sextán nýir meðlimir bættust í félagið á árinu, en svo hafa nokkrir fallið úr, og er það að sumu leyti okkur að kenna. Við höfum ekki verið nógu duglegir að koma ritinu út, og það, að ekki varð af breytingunni á þingtímanum, sem ákveðin var á síðasta þingi, með að halda þingið í júní. Það er almenn óánægja í Bárunni út af því.

17. júní var haldinn hátíðlegur á Mountain síðastliðið sumar undir stjórn Bárunnar. Þar voru aðalræðumenn, séra Philip M. Pétursson, forseti Þjóðræknisfélagsins, og Dr. R. Beck frá Grand Forks, og sagðist þeim báðum ágætlega; svo var skemt með ein- og tvísöngvum og síðast með söngvum, sem allir tóku þátt í. Forseti Bárunnar, G. J. Jónasson, stjórnaði samkomunni, sem fór að öllu leyti vel fram og var allvel sótt.

Ekki var hægt að koma hér við íslenzkukenslu síðastliðið sumar, sökum flóðsins, en við búumst við að reyna aftur á komandi sumri, ef ástæður og veður leyfir.

Þann 9. október síðastliðinn kom hér Dr. Páll Kolka frá Íslandi og hélt hér fyrirlestur og sýndi myndir frá Íslandi. Stóð Báran fyrir samkomunni, sem haldin var í kirkjunni á Mountain. Samkoman var fremur vel sótt og í alla staði ánægjuleg.

Báran óskar að þetta þing verði í alla staði skemtilegt og allt gangi vel. Biðjum að heilsa.

G. J. JÓNASSON, forseti
H. B. GRÍMSSON, skrifari

**Skýrsla deildarinnar „Lundar", Lundar, Man.**

Þjóðræknisdeildin „Lundar", hefir haldið fjóra fundi á árinu 1950, og tvo aukafundi. Aðsóknin hefir verið góð, því að yfirleitt er mikill áhugi fyrir þjóðræknismálum innan deildarinnar. Ákveðið var í fyrravetur að stofna til íslenzkukenslu, en því miður reyndist það ómögulegt. Ástæðurnar voru tvær aðallega. Vöntun á húsplássi og áhugaleysi fólks yfirleitt, og voru það vonbrigði fyrir þá, sem að líta svo á, að aðalverk deildarinnar sé, að reyna að halda við íslenzkunni hjá ungdóminum.

Í aprílmánuði fréttist það, að Dr. Thorlakson, ásamt Dr. Gillson, forseta Manitoba-háskólans, ætluðu að hafa samkomu á Lundar til arðs fyrir kennaraembættið í íslenzku við háskólann. Mikill undirbúningur var hafinn og ákveðið, að samkoman yrði haldin 13. maí, en flóðið mikla og ófærar brautir ollu því, að samkomunni var frestað til óákveðins tíma.

Ein samkoma var haldin á árinu með góðum árangri. Á henni sýndi séra Philip M. Pétursson myndir frá Íslandi.

Einnig annaðist deildin um móttöku Dr. Kolka, og undirbúning að samkomu hans á Lundar. Hann var okkur öllum kærkominn gestur.

Á nýafstöðnum ársfundi var ákveðið að deildin „Lundar" reyndi að safna $1000.00 til styrktar íslenzka kennaraembættinu við Manitoba háskólann.

Meðlimatala deildarinnar er 47. Í sjóði á ársfundi $113.00.

ÁGÚST EYJÓLFSSON, forseti
L. SVEINSSON, skrifari

**Skýrsla deildarinnar „Frón", Winnipeg, Man.**

Starf deildarinnar á árinu sem leið, byrjaði með Frónsmótinu, sem haldið var í samkomusal Sargent Park skólans á þriðjudaginn 21. feb. 1950. Sú samkoma tókst vel og var allvel sótt (um 350 manns) þó veðrið væri vont, og um nýjan samkomusal að ræða.

Hr. Gunnar Pálsson frá New York, var gestur okkar þetta kveld. Hann skemti með söng og sýndi hreyfimyndir af Íslandi og öðrum skandinaviskum löndum. Einnig spilaði streng-kvartett, undir stjórn Pálma Pálmasonar fiðluleikara, íslensk þjóðlög, og Mrs. Rósa Hermannsson Vernon söng einsöng. Samkomunni stjórnaði Próf. Tryggvi J. Oleson. Að samkomunni lokinni var dansað fram yfir miðnætti.

Þann 28. marz, 1950, var opinn fundur haldinn í G. T.-húsinu, þar flutti séra P. M. Pétursson ræðu um 75 ára sögu Íslendinga í Winnipeg, og dró athygli að því, að 75 ára afmæli íslenzks landnáms í Manitoba færi í hönd á komandi hausti.

Næsti fundur deildarinnar var haldinn í G. T.-húsinu á mánudaginn 6. nóv., og var helgaður 400 ára ártíðarafmæli Jóns biskups Arasonar. Í þetta sinn kom Dr. Richard Beck alla leið frá Grand Forks til þess að flytja minnisræðuna og tókst honum vel að vanda. Þá las Ragnar Stefánsson upp kvæði Matthíasar um Jón biskup á aftökustaðnum, og tókst með ágætum, en Harold Jónasson spilaði á cello öllum til ánægju. Þetta var góð samkoma í alla staði og var sæmilega vel sótt.

Þess er vert að geta, að Dr. Beck setti deildinni minna, en beinan ferðakostnað og er það vel gert, er menn taka úr eiginn vasa deildinni til styrktar. Hér fer einnig vel á því, að þakka aftur þeim vinum Fróns hér í borg, sem oft og mörgum sinnum hafa skemt á Frónsfundum og altaf endurgjaldslaust. Ég nefni hér aðeins nöfn þeirra, sem við höfum oftast leitað til þessi síðastliðin 4 ár, sem að undirritaður hefir gegnt ritaraembættinu, en það eru: Miss Thora Ásgeirsson, Miss Joan Alliston, Miss Evelyn Thorvaldsson, Allan Beck og Ragnar Stefánsson.

Ársfundur deildarinnar var haldinn 4. des. s.l. Þar flutti Dr. Páll Kolka góða og hressandi ræðu. Á þeim fundi var sú breyting gerð, að Mrs. E. P. Jónsson var kosin forseti deildarinnar í stað Prófessor Tryggva J. Oleson, sem gegnt hefir því embætti s.l. fjögur ár, og nú baðst undan endurkosningu. Prófessor Oleson hefir starfað með dugnaði og samvizkusemi að velferð deildarinnar öll þessi ár og ber að virða það að makleikum, því embætti því fylgir jafnan meiri vandi, en virðing.

Ekki voru fleiri opnir fundir haldnir á árinu, en nefndarfundir voru átta talsins.

Svo sem að undanförnu, hafa tekjur deildarinnar farið mestmegnis til bókasafnsins, enda er hagur þess í blóma, eins og að skýrsla bókavarðar mun bera með sér.

Fjárhagur deildarinnar er svipaður og verið hefir. Við berjumst þetta í bökkum þannig, að inntektir og útgjöld standast á. Meðlimafjöldi er á milli 180—90 og hefir hækkað nokkuð, enda höfum við duglegan mann í embætti fjármálaritara.

Það gefur að skilja, að deildin mun halda í horfinu undir stjórn nýja forsetans, og óhætt er að treysta því, að Frón muni eftir beztu getu starfa að viðhaldi hollrar þjóðrækni á meðal Íslendinga í Winnipeg í framtíðinni.

Virðingarfylst,

H. THORGRÍMSSON, ritari Fróns

Forseti gat þess, að halur, horskur og gegn, væri kominn í þingsalinn ásamt frú sinni og bað hann heilsa upp á þingið, og það gjörði Valdimar Björnsson frá Minneapolis með sínum vanalega skörungsskap.

**Skýrsla bókavarðar**

**Þjóðræknisdeildarinnar ‚Frón' í Winnipeg**

Fyrir tímabilið 5. okt. 1949 til 1. febr. 1951

1. Það má segja, að aðsókn að bókasafninu hafi verið góð á þessu tímabili, og farið vaxandi síðastliðna þrjá mánuði. Alls hafa um 70 manns fengið bækur lánaðar á þessu umrædda tímabili. Að vísu hafa þeir ekki allir komið reglulega á hverjum degi sem að safnið hefir verið opið. Flestir þeirra hafa fylgt hinum settu reglum bókasafnsins og vonandi er, að þeir fáu, sem að hafa út af þeim brugðið, betri sjálfan sig í framtíðinni — sérstaklega þeir, sem þann ósið temja sér, að lána öðrum útífrá þær bækur, sem að þeim er trúað fyrir.

2. Bókasafnið hefir verið haft opið á hverjum miðvikudegi frá kl. 10—11 f. h. og frá kl. 7—8.30 e. h. Tveir miðvikudagar hafa fallið úr á þessu tímabili, sem safnið hefir ekki verið opið.Annar þeirra var 23. febrúar 1950 sökum þjóðræknisþingsins, sem þá stóð yfir. Hinn var 17. maí sökum vatnsflóðs í byggingunni, sem safnið er í. Þess má geta, að engar skemdir urðu á bókum safnsins frá vatni, í áminstu flóði.

3. Bókasafnið var lokað frá 28. júní til 6. september. Var það álit stjórnarnefndar Fróns, að svo margir bókanotendur mundu þá vera fjarverandi, svo að þýðingarlaust væri að halda því opnu.

4. Á tímabilinu sem safnið var opið voru 3213 bækur lánaðar út, og eru það sem næst 60 bækur á dag, fyrir þá daga sem að safnið var opið. Geta má þess, að aðsókn að safninu hefir verið meiri suma daga, en aðra, en sjáanlegt er, að aðsóknin fer vaxandi og sýnist það benda til, að gott bókasafn hafi mjög mikla þýðingu enn vor á meðal, ég meina Íslendinga.

5. Talsvert af bókum og ritum hefir safninu verið gefið á þessu tímabili, og þær gjafir viðurkenndar og fyrir þær þakkað í báðum íslenzku vikublöðunum og mun þeirri reglu verða haldið áfram eins lengi og núverandi bókavörður er við safnið. Þess má einnig geta, að keyptar hafa verið 24 nýjar bækur frá Íslandi sem allar komu óbundnar og það kostaði 47 dollara að binda þær, en verð bókanna sjálfra var 100 dollarar. Geta má þess einnig, að deildin Frón hefir látið binda 31 árgang Tímarits Þjóðræknisfélagsins, 9 árganga af Syrpu O. S. Þorgeirssonar og Almanak O. S. Þ. upp til þessa árs, nema fyrstu 5 árgangana sem nú virðast ófáanlegir. Einnig hafa verið keyptir 8 árgangar af Icelandic Canadian og bundnir og mun kostnaðurinn við þetta bókband hafa numið um 90 dollurum, sem að Frón borgaði.

6. Í safninu eru nú 2000 bækur, en því miður eru þær ekki allar í góðu lagi, það þyrfti að binda, eða gjöra við band á 100 bókum, annars verður ekki hægt að lána þær út lengur.

Eins og kunnugt er fær deildin Frón mjög litla borgun fyrir að líta eftir safninu, aðeins 50 cents frá hverjum þeim félaga sem fær bækur lánaðar úr safninu og mun sú tala vera rúmlega 60, sem gjörir 30 dollara, er Frón fær fyrir að líta eftir bókasafninu. Sýnist því liggja beint við, að Þjóðræknisfélagið gjöri eitthvað við áður áminstar bækur.

Að síðustu leyfir núverandi bókavörður sér að minnast á, að eins og nú hagar til, þá eru mikil óþægindi að því fyrir þá, sem koma til að fá lánaðar bækur, að pláss það sem ganga þarf í gegnum er lítið og fullt af spilaborðum, stólum og mönnum, sem spila og er mjög erfitt að þrengja sér inn þangað sem að bækurnar eru afhentar. Nokkrum stjórnarnefndarmönnum Þjóðræknisfélagsins er vel kunnugt um þetta, og væri það því mjög æskilegt, að litið væri eftir þessu framvegis.

Það er á allra vitorði, að bókasafnið er eign Þjóðræknisfélagsins í heild, en ekki deildarinnar „Frón" sem aðeins hefir

eftirlit með því, nú sem stendur og mundi engu á því tapa, að hætta því eftirliti með öllu.

J. JÓNSSON, bókavörður

Jón M. Ólason lagði til, að þriggja manna nefnd sé sett í bókasafnsmálið. Dr. T. J. Oleson studdi. Samþykt. Í nefndina settir Jón M. Ólason, Pétur N. Johnson og Jón Jónsson.

**Skýrsla**
**Þjóðræknisdeildarinnar „Gimli" 1950**

Deildin hefir haldið fimm fundi á árinu. Flestir félagar hafa mætt á þessum fundum, og einnig utanfélagsmenn. Íslenzk skemtiskrá fer ætíð fram á eftir fundum og einnig er drukkið sterkt og gott íslenzkt kaffi.

Út á við hefir deildin lítið starfað. Einu sinni beðin að útbýta auglýsingum frá forseta Þjóðræknisfélagsins. Það var þegar Dr. Páll Kolka heimsótti okkur. Væri æskilegt að geta fengið heimsóknir af svipuðu tagi sem oftast. Börnunum sem sóttu íslenzka skólann gaf deildin aðgang að samkomunni.

Engin íslenzkukensla ennþá í vetur. Meðlimatala núna 50 manns.

Mér hefir skilist á þeim sem gefa út þjóðræknisritið að þeir séu óánægðir með langar skýrslur, því að þær taki of mikið pláss í ritinu. Þess vegna hef ég alltaf haft mína skýrslu stutta.

| | |
|---|---|
| Inntektir á árinu | $ 58.00 |
| Útgjöld | 51.00 |
| Í sjóði | 107.00 |

Embættismenn deildarinnar fyrir árið 1950, eru sem hér segir:

Guðmundur Fjeldsted, forseti
Ingólfur N. Bjarnason, ritari
Sigurður Baldvinsson, varaforseti
Elías Ólafsson, féhirðir.

**Ársskýrsla**
**deildarinnar „Esjan" Árborg, Man.**
**fyrir árið 1950**

Meðlimatala fyrir árið sem leið 66, sem er nokkru færra en árið áður. Þrír aðalfundir hafa verið haldnir á árinu, og nefndarfundir eftir því sem þurfa þótti.

Ein samkoma var haldin til arðs fyrir félagið, þann 6. júní, í hinu nýja og myndarlega samkomuhúsi Geysis-byggðar. 20 börn tóku þátt í upplestrarsamkeppni á íslenzku og var dómnefnd frá Winnipeg. Mrs. Ingibjörg Jónsson, Gísli Jónsson og séra Philip M. Pétursson. Leystu þau verk sitt vel af hendi eftir almannadómi. Erum við þessum fólki innilega þakklát.

Önnur samkoma var haldin í Árborg, 29. september, var Dr. Páll Kolka aðalaðdráttarafl þeirrar samkomu og skemti hann fólki hið bezta. Þess má geta í sambandi við þá samkomu, að Mrs. Florence Broadley hefir um nokkur undanfarin ár æft unglinga í söng íslenzkra ljóða. Söng sá flokkur á þessari samkomu við góðan orðstír.

Bókasafn deildarinnar hefir verið starfrækt með líkum hætti og að undanförnu. Það er mikið lesið hér enn af íslenzkum bókum.

Í stjórnarnefnd eru:

Forseti, Gunnar Sæmundsson
Varaforseti, Valdi Jóhannesson
Ritari, Herdís Eiríksson
Fjármálaritari, Magnús Gíslason
Gjaldkeri, Tímóteus Böðvarsson
Varagjaldkeri, Kristveig Jóhannesson
Bókavörður, Franklín Peterson.

**Fjárhagsskýrsla:**

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $125.40 |
| Inntektir á árinu | 117.00 |
| Samtals | $242.40 |
| Útgjöld á árinu | 105.90 |
| Í sjóði um áramót | 136.50 |

Dagsett 23. febrúar 1951 að Árborg, Man.

HERDÍS EIRÍKSSON ,ritari

Meðfylgjandi þessari skýrslu, var eftirfylgjandi fundarsamþykt flutt á þinginu af ritara deildarinnar „Esjan".

Þar sem tilkynning hefir verið birt í íslenzku blöðunum af ritara Þjóðræknisfélagsins þess efnis, að ársþing þess skuli enn verða haldið í febrúar en ekki í júní á þessu ári, eins og samþykt var af síðasta ársþingi. Vegna þess að starfsnefnd Þjóðræknisfélagsins, af vanrækslu eingöngu, hefir virt þá þingsályktun algjörlega að vettugi, sjáum við ekki ástæðu til að sendir verði fulltrúar á fleiri þjóðræknisþing, nema að staðið verði við þær gerðir, sem samþyktar voru á síðasta þingi.

Dagsett 23. febrúar 1951,

GUNNAR SÆMUNDSSON, forseti
HERDÍS EIRÍKSSON, ritari

**Skýrsla „Öldunnar" yfir árið 1950**

Árið 1950 hefir starf Þjóðræknisdeildarinnar Öldunnar í Blaine, Wash. verið sem hér segir:

Fjórir aðalfundir hafa verið haldnir, og tveir stjórnarnefndarfundir. Frelsisdagur Íslands, 17. júní, var haldinn hátíðlegur

með almennri skemtisamkomu að kveldi þess dags. Aðsókn var sæmileg og skemtiskráin sérstaklega vel látin.

Sú nýbreytni gafst Öldunni að veita móttöku íslenzkum fræðimanni, Dr. P. V. G. Kolka, sem kom til þessa bæjar, flutti fyrirlestur og sýndi íslenzkar kvikmyndir 7. nóvember. 17. s. m. hélt Aldan honum samsæti. Við það tækifæri var honum afhent að gjöf frá Öldunni af féhirði hennar, litmynd í ramma af Friðarboganum víðþekta, sem stendur á landamærum Canada og Bandaríkjanna, sem kostaði $11.64. Var sú heimsókn deildinni til uppbyggingar og ánægju, og telur deildin hana sér til sæmdar, og væntir þess, að koma Dr. Kolka verði þjóðræknismálum vorum til þeirrar uppbyggingar, sem til er ætlast.

Aldan heldur teknum hætti með að láta sér annt um Elliheimilið Stafholt. Snemma á árinu voru gefnir $100.00 í byggingarsjóð heimilisins. Þriggja manna nefnd hefir það hlutverk með höndum, að líta eftir tækifærum til að hlynna að heimilinu fjárhagslega. Sú nefnd aflaði $136.50, sem var arður af samkomu er nefndin stofnaði til. Svo tók deildin að sér að borga fyrir tvö „Vapour" ljós sem sett voru upp, fyrir framan bygginguna. Heimsókn til heimilisins var gerð 17. des. Skemtanir um hönd hafðar. Kaffi drukkið með heimilisfólkinu og ljósin fögru formlega afhent, sem jólagjöf til heimilisins. Þau kostuðu $190.00.

Samvinna innan deildarinnar er ákjósanleg. Árlega er höggvið skarð í meðlimatölu deildarinnar. Þetta ár hafa þessir látist: Elías Thompson og Jónína Árnason, bæði til heimilis í Stafholti og bæði meðlimir Öldunnar á meðan fjör og heilsa leyfði, og Sigríður Paulson, í Blaine, sem var félagi í Öldunni til dánardægurs. Er þeirra, sem og alls samferðafólks sem hverfur yfir móðuna miklu, minnst með söknuði og þakklæti, fyrir ljúfa samfylgd.

Telur deildin á þessum áramótum 48 meðlimi.

A. E. KRISTJÁNSSON, forseti
DAGBJÖRT VOPNFJÖRÐ, ritari

**Ársskýrsla deildarinnar „Brúin" í Selkirk fyrir árið 1950**

Á árinu hélt Þjóðræknisdeildin Brúin ellefu starfsfundi, þrjár arðberandi samkomur og fjórar skemtisamkomur.

Í júní stóð deildin fyrir „Whist Drive" til arðs fyrir Flood Relief og fékk inn $85.00, sem sent var til Flood Relief Fund í Winnipeg.

Samkoma var haldin hér í sumar, þegar herra Pálmi Hannesson rektor, sendifulltrúi íslenzku ríkisstjórnarinnar á 75 ára hátíðina á Gimli, kom hér og skemti með ræðu og fréttum frá Íslandi og sýndi myndir.

Einnig hafði fólk hér góða skemtistund, þegar Dr. Kolka kom hér og flutti erindi og sýndi ágætar myndir af Íslandi. Fyrir þetta er deildin mjög þakklát Þjóðræknisfélaginu, sem aðallega stóð fyrir því, að þessir menn komu hingað.

Svo kom söngflokkur Nýja-Íslands hér undir umsjón deildarinnar og hélt hér fyrirtaksgóða söngskemtun. Rétt á eftir kom leikflokkur Geysis-byggðar hér og skemti með leik, sem var vel sóttur og ágætur rómur gerður að.

Á árinu átti deildin á bak að sjá góðum og tryggum félagsmeðlim, Sigurði Indriðasyni, er lengi hafði starfað í og stutt þennan félagsskap.

Tveir nýir meðlimir gengu í félagið á árinu. Meðlimatala deildarinnar nú 47.

| | |
|---|---|
| Inntektir á árinu | $567.00 |
| Útborganir | 440.81 |
| Í sjóði um áramót | 126.19 |

ALLIC GOODBRANDSON

**Skýrsla deildarinnar „Snæfell" 1950**

Þetta verður fremur afsökun á litlum framkvæmdum, en ársskýrsla, því lítið hefir verið afhafst innan deildarinnar sem í frásögur sé færandi.

Þeir eru nú orðnir svo fáir, sem áhuga hafa fyrir málum Þjóðræknisfélagsins, að meðlimatalan er komin niður í 12. En það mun vilja við brenna í flestum félagsskap, að eftir því sem að hann verður fáliðaðri, er eins og að starfsáhuginn dofni, eða svo hefir það að minsta kosti reynst hér hjá okkur. En þó er langt frá því, að við þessi fáu sem eftir erum, séum að því komin að leggja árar í bát. Þvert á móti lifum við í voninni um, að okkur muni aukast starfskraftar með tíð og tíma.

Ég get þess hér, að fyrir tilstilli Þjóðræknisfélagsins áttum við því láni að fagna á s.l. hausti, að Páll Kolka læknir kom og heimsótti okkur og var það óblandin ánægja öllum þeim sem áttu þess kost, að sjá hann og heyra. Þó vildi svo óheppilega til, að veður var vont samkomudaginn, og vegir erfiðir yfirferðar

vegna fannkomu, urðu því margir að sitja heima með sárt ennið, sem fegnir hefðu viljað vera með á þeirri samkomu.

Viljum við hér með tjá Þjóðræknisfélaginu innilegt þakklæti vort, fyrir það að gefa okkur tækifæri til að sjá og heyra þennan góða gest, sem við munum seint gleyma.

Óskum svo Þjóðræknisfélaginu allrar blessunar í framtíðinni.

Með beztu kveðju til þingsins.

BJÖRN E. HINRIKSSON, ritari

### Skýrsla deildarinnar „Ísland" 1950

Árið sem leið, 1950, hefir verið viðburðalítið hvað deild okkar snertir, aðeins þrír almennir fundir haldnir, sem voru að vísu vel sóttir. Meðlimatala óbreytt að mestu frá árinu áður. Af meðlimum deildarinnar borguðu 24 ársgjald sitt til aðalfélagsins fyrir árið sem leið, 1950.

Það var mikil tilhlökkun hér, er okkur var tilkynt um ráðstafanir viðvíkjandi heimsókn Dr. Kolka til okkar, í haust er leið, og að hann meðal annars hefði meðferðis og sýndi hreyfimyndir frá Íslandi, en þar sem við höfum ekki enn raforku í bygð okkar, var ekki hægt að sýna myndirnar. En yngra fólkið, og reyndar allir, þrá að sjá góðar myndir frá Íslandi, jafnframt því, að hlusta á og kynnast góðum gesti og ræðumanni.

Auk þess stóð illa á hvað haustannir snertir, sökum óvanalegrar og afar erfiðrar haustveðráttu, sem allt gjörði seint og erfitt. Sökum alls þessa, sáum við ekki annað fært, en að afþakka þetta ágæta boð, og er það í fyrsta sinni, sem að við höfum ekki séð okkur fært, að þiggja heimsókn góðra gesta frá Íslandi.

Við þökkum stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins fyrir að bjóða þessa heimsókn, og hörmum að við gátum ekki orðið aðnjótandi þeirrar ánægju að fá að kynnast Dr. Kolka.

Með þakklæti og beztu óskum til Þjóðræknisfélagsins og ársþings þess.

Fyrir hönd deildarinnar „Ísland"
Brown, Manitoba.

THORSTEINN J. GÍSLASON, ritari
J. B. JOHNSON, forseti

Skýrslum þessum var veitt móttaka af þinginu með þakklæti.

### Skýrsla Páls Kolka læknis til Þjóðræknisfélagsins á ársþingi þess 1951

Heiðruð stjórn Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi:

Kæru landar og vinir:

Á stjórnarfundi Þjóðræknisfélagsins, sem ég mætti á skömmu eftir áramótin, gaf ég stutta skýrslu um ferðir mínar á vegum félagsins og benti á ýmis verkefni, sem mér, að ferðum þessum afstöðnum, virtist vera aðkallandi. Ég lofaði þá að gefa þessa skýrslu skriflega og vil ég hér með sýna á því nokkurn lit.

#### I.

Starf mitt á þessum ferðum mínum var tvíþætt, annars vegar fólgið í fyrirlestrahaldi og kvikmyndasýningu, hins vegar í persónulegu kynningarstarfi, viðræðum við fólk að samkomum enduðum og heimsóknum til landa eftir því, sem komið varð við. Um samkomurnar sjálfar er það að segja, að þær voru mjög misjafnlega sóttar, án þess að ég vilji leggja á það dóm, að hvað miklu leyti léleg fundarsókn var óviðráðanlegum ástæðum að kenna, en auðvitað áttu uppskeruannir stóran þátt í því á sumum stöðum. Á öðrum stöðum var fundaraðsókn langt fram yfir það, sem hægt var að búast við, t. d. í Vancouver, en þar hafði stjórn félagsdeildarinnar sent öllum skrásettum meðlimum sérstakt fundarboð. Til athugunar eftirleiðis vil ég láta þá skoðun uppi, að ef kostað er til slíkra ferða sem þessarar, en það tel ég mjög æskilegt, þá þarf að vanda mjög til alls undirbúnings, hafa sem nánasta samvinnu við deildarstjórnirnar á hverjum stað að því er snertir hentugan fundardag og um fundarboð, og veltur þá auðvitað á mestu, að deildarstjórnirnar sýni bæði áhuga og hugkvæmni í því að fá menn til að mæta, einkum hið yngra fólk. Tel ég heppilegt vegna þess, að útdráttur úr erindunum sé gefinn á ensku, en þann hátt hafði ég á samkomum á Kyrrahafsströndinni og í Wynyard og tel það eina ástæðuna til ágætrar aðsóknar á þessum stöðum. Um val á kvikmyndum er það að segja, að ánægjan af þeim er ekki fyrst og fremst undir því komin, að þær sýni nýjustu framfarir á Íslandi, svo sem stórhýsi, verksmiðjur og þess háttar, þótt það sé gott með öðru góðu. Fólk, sem að einhverju eða öllu leyti er alið upp á Íslandi, gleðst mest yfir því að sjá myndir, sem vekja hjá því bernskuminningar t. d.

af skepnum, en þær voru æskuvinir flestra, sem ólust upp í sveit. Að lokum skal þess getið í sambandi við samkomurnar, að vestur á Kyrrahafsströndinni töldu sumir aðgangseyrinn hafa verið of lágan og að aðsókn hefði alls ekki orðið minni, þótt hann hefði verið heill dollar í stað hálfs, en um það tel ég mig ekki dómbæran. Þó vil ég benda á, að með því hefði sennilega fengist upp kostnaðurinn af ferð minni, jafnvel þótt ýmsu aldurhnignu og félitlu fólki hefði verið sendir aðgöngumiðar ókeypis.

Annar þáttur ferðalags míns var fólginn í persónulegri kynningarstarfsemi. Á flestum stöðum var kaffisamsæti eftir fundina, þar sem mér gafst tækifæri til að heilsa fólkinu og spjalla nokkur orð við ýmsa, auk þess sem þá voru jafnan sungin íslenzk þjóðlög. Þetta tel ég mjög þýðingarmikið atriði, bæði fyrir fyrirlesarann og áheyrendur, sem margir þrá ekki aðeins að heyra rödd frá gamla landinu, heldur og að taka í útrétta íslenzka hönd og fá persónulegar fréttir frá Íslandi, þar sem því verður viðkomið. Ég var stórhrifinn af þeirri ánægju og gleði, sem skein út úr andlitum blessaðra landanna, þegar gamalkunnu íslenzku ljóðin og lögin voru sungin. Til þess að halda við tryggðinni til „ástkæra ylhýra málsins" er ekkert ráð betra en að syngja það inn í hug og hjarta fólks.

Um hinn þátt þess persónulega kynningarstarfs, heimsóknirnar á einstök heimili, er það að segja, að fátt hefir fengið mér eins mikillar gleði á ferð minni eða verður mér ógleymanlegra. Veldur þar nokkru um forvitni mín á að kynnast högum og heimilislífi Íslendinga vestan hafs, en engu síður sú gestrisni og einlæga hlýja, sem hvarvetna mætti manni. Því miður var tíminn víða af of skornum skammti til þess að sinna þessu eins og skyldi. Einkum harma ég það, að mér gafst ekki tími til að heimsækja hina ágætu Íslendinga í kringum Glenboro, Hayland og Riverton, en á síðasta staðnum var veðrið einnig til fyrirstöðu. Í Árborg, North Dakota, Seattle og Blaine hafði ég aftur á móti góðan tíma til að koma á mörg heimili og hafði þar prýðilega leiðsögumenn, sem fórnuðu miklum tíma til fylgdar mér. Verða þeir dagar mér ógleymanlegir, sem ég ók um með þeim um blómlegar Íslendingabyggðir og mætti gestrisni og gleði, hvar sem barið var að dyrum. Það skal og tekið fram, að gististaðirnir, sem mér voru útvegaðir, voru hver öðrum yndislegri, og væri ég ekki bundinn í báða skó heima á Íslandi, hefði þessari ferð minni sennilega lokið með því, að ég hefði gerzt flakkari að gömlum sið og orðið nokkurs konar Sölvi Helgason eða Símon Dalaskáld í Íslendingabyggðunum hér vestan hafs.

## II.

Þá vil ég leyfa mér að benda stjórn Þjóðræknisfélagsins á ýmislegt, sem ég tel horfa til bóta og rétt að taka til athugunar, ef starf Þjóðræknisfélagsins á að geta náð fullum árangri. Verkefnin eru mörg og sum mjög erfið, en hafa aftur á móti svo mikið framtíðargildi, að varla er hægt að ganga fram hjá þeim. Mun ég í því sambandi benda á það, sem mér þykir ábótavant í starfi félagsins, og vona ég, að það verði ekki tekið illa upp.

Ég hef hitt hér marga landa, sem tala ágæta íslenzku, eins góða eða jafnvel betri en gengur og gerist heima á Fróni, en það fær heldur ekki dulizt, að íslenzkan er hvorki töm tungu né eyra alls þorra þess fólks, sem er af þriðju kynslóðinni hér vestan hafs og á þetta einkum við um Winnipeg. Mér virðist, að víða hafi hvorki foreldrar né börn áttað sig á því, hversu dýrmætur arfur íslenzkan er, og er þetta ekki tilfinningamál eingöngu, heldur blátt áfram praktískt atriði. Það er hverjum einum gott veganesti að leggja út í lífið með menntun og fátt er jafn menntandi í víðtækum skilningi eða gefur jafn góð skilyrði til menntunar eins og að læra íslenzku, eina lifandi klassiska málið, sem nú er talað á vesturhveli jarðar og er ekki aðeins móðir hinna skandinavisku málanna, heldur og móðursystir ensku, þýzku og hollenzku. Þar að auki er íslenzkan lykill að bókmenntum, sem öldum saman sköruðu langt fram úr því, sem skapað var á sama tíma og af sama tagi meðal hins hvíta kynstofns, og enn þann dag í dag eru á því máli skapaðar bókmenntir, sem þola samanburð við bókmenntir flestra annara landa. En íslenzkan er erfitt mál og því er það mikill fengur að geta lært hana fyrirhafnarlítið af munni foreldra sinna. Fyrsta og jafnvel önnur kynslóð Íslendinga hér vestan hafs var sjálfmenntuð, af því að hún hafði drukkið íslenzkt mál inn í sig með móðurmjólkinni, og íslenzku landnemarnir stóðu því sem heild á hærra bókmenntalegu menningarstigi en nokkurt annað þjóðar-

brot hér. Þessir yfirburðir eru því miður óðum að tapast. Frændur okkar, Skotar, hefðu haldið betur á sínu, ef þeir hefðu átt sitt sérstaka og sameiginlega móðurmál og aðrar eins bókmenntir á því eins og við Íslendingar. Þjóðræknisfélagið þyrfti að koma ungu fólki af íslenzku kyni í skilning um það, að hér getur það varla talist dyggð gagnvart hinu nýja fósturlandi að afneita menningararfi feðra sinna, þótt það teljist vottur um þjóðhollustu í einræðisríkjum að ofurselja foreldra sína í böðla hendur, ef svo stendur á.

Sem betur fer eru Íslendingar hér vestan hafs nú að koma upp háborg íslenzkrar menningar í Vesturheimi, þar sem er kennarastóllinn í íslenzkum fræðum við Manitoba-háskóla. Sú háborg verður að komast upp og standa, þótt íslenzkan hverfi sem mælt mál meðal almennings, en æskilegast er, að íslenzkan lifi sem lengst á tungu fólksins, svo að kennarastóllinn verði ekki eins og „kirkja á öræfatind".

Sú þjóð, sem nú byggir Ísland, telur ekki nema helming þess mannfjölda, sem drepinn var í loftárásunum á Dresden á 24 klukkustundum, samkvæmt því, sem ég las í nýju hérlendu læknatímariti. Samt sem áður myndi ásýnd menningarinnar í heiminum breytast og verða svipminni, ef íslenzka þjóðin væri þurrkuð út. Það er af því, að Íslendingar eiga sérstæða og sjálfstæða menningu og hana eiga þeir fyrst og fremst því að þakka, að í tæka tíð voru uppi menn, sem skráðu sögur fyrstu kynslóðanna í landinu. Ég trúi því, að amerísk menning eigi mikla framtíð fyrir sér, en þó því aðeins, að ekki sé kastað á glæ minningunni um landnám og lífsbaráttu fyrstu kynslóða hvítra manna hér í álfu. Það er skylda fólks af íslenzku kyni og þá Þjóðræknisfélagsins fyrst og fremst að varðveita frá glötun allar leifar hins íslenzka landnáms hér og leggja með því fram íslenzkan skerf til framtíðarmenningar Vesturheims. Til þess þarf að bjarga öllu því, sem bjargað verður viðvíkjandi lífi og starfi landnemanna og fyrstu kynslóðanna, ná myndum af þeim, upplýsingum um ætterni þeirra og ættartengsli við gamla landið, sögum af afrekum þeirra og séreinkennum. Nú á sú villimennska sér stað meðal Íslendinga hér í álfu, að ljósmyndum af landnemum og fágætum, dýrmætum bókum á íslenzku er ýmist brennt eða þeim hent út á sorphaug. Merkur maður hér skýrði mér nýlega frá því, að hann hefði fundið fágætar, íslenzkar bækur á sorphaugnum utan við bæinn, sem hann býr í. Mér var einnig skýrt frá því, að við dauða eins Íslendings, sem áratugum saman hafði safnað bókum, blöðum og tímaritum, hefði öllu safni hans verið brennt, af því að það var stórt fyrirferðar. Þjóðræknisfélagið verður að fá góða menn í hverri Íslendingabyggð til að bjarga því, sem hægt er, af gömlum bókum og gömlum ljósmyndum, að ég nú ekki tali um kirkjubókum úr söfnuðum Íslendinga. Sama er að segja um gömul íslenzk örnefni, sem fullt er af, einkum í Nýja-Íslandi. Það eru síðustu forvöð með margt af þessu, en betra er seint en aldrei.

Hér vestra er margt ágætra Íslendinga, en það þarf að skipuleggja og samræma krafta þeirra í þessum tilgangi og það verður Þjóðræknisfélagið að gera, annars verður það ógert. Til þess þarf auðvitað fé, en það ætti að vera auðfengið ef viljann vantar ekki. Bláfátækir landnemar sameinuðu krafta sína þegar á fyrstu árunum til þess að koma sér upp kirkju í hverri sveit, launa presta og gefa jafnvel út blöð og tímarit. Ef allar þær þúsundir manna af íslenzku kyni, sem nú búa í þessari heimsálfu, fást ekki til að leggja fram nokkur þúsund dollara árlega til þess að bjarga íslenzkum menningarverðmætum frá glötun og leggja með því stein í framtíðarbyggingu amerískrar menningar, þá eru þeir ættlerar, lélegir synir feðra sinna og ennþá lélegri feður afkomenda sinna.

Ég álít það höfuðnauðsyn, að Þjóðræknisfélagið hafi fastan erindreka í þjónustu sinni, sem ferðist um allar Íslendingabyggðir, safni saman gömlum íslenzkum ljósmyndum og bókum, skrásetji merkilegar frásagnir frá landnámsöldinni hér, skrifi upp eða öllu heldur ljósmyndi allar kirkjubækur, sem til eru, og reyni að hafa upp á ættum þeim, sem komnar eru af landnemunum. Það þarf að glæða áhuga manna í hverju byggðarlagi fyrir þessu og að sjálfsögðu hafa um þetta samvinnu við fræðimenn á Íslandi, þegar um er að ræða ættfærslu eða annað, sem ræturnar standa að þar heima. Ef þetta tekst, þá mun Þjóðræknisfélagsins verða minnst hér í landi öldum saman og nafn þess verða skráð bæði í menningarsögu Íslands og Ameríku.

—0—0—0—

Ég get því miður ekki varið lengri tíma til dvalar hér vestan hafs, þótt mér hefði þótt vænt um að fá að mæta sem gestur á ársþingi Þjóðræknisfélagsins. Ég vil því biðja stjórn þess að koma á framfæri inni-

legu þakklæti mínu til allra þeirra mörgu, sem á einn og annan hátt hafa gert mér dvölina hér ánægjulega og ógleymanlega og sýnt mér gestrisni og vináttu. Ég þakka stjórn Þjóðræknisfélagsins af heilum huga boð hennar, ágæta samvinnu og allan höfðingshátt hennar í minn garð. Ég fer héðan betri Íslendingur en ég kom, því að ég er snortinn af þeirri fölskvalausu og einlægu ást til gamla ættlandsins, sem ég hef fundið meðal svo margra, sem ég hitti, en ekki eiga tækifæri til að líta það öðru vísi en í anda. Hollvættir Íslands haldi hendi sinni yfir þeim og yfir starfi Þjóðræknisfélagsins í nútíð og framtíð.

Winnipeg, 25. janúar 1951

P. V. G. KOLKA

Til stjórnar Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

**ÞINGMÁL SETT Í NEFNDIR:**

**Útgáfumál.**

Th. Gíslason stakk upp á, Trausti Ísfeld studdi, að fimm manna nefnd sé sett í það mál. Samþykt. Í nefndina settir af forseta. Björn Stefánsson, Séra V. J. Eylands, Einar Magnússon, Ólafur Hallsson, Páll Th. Stefánsson.

**Útbreiðslumál.**

Dr. Beck lagði til og Trausti Ísfeld studdi, að fimm manna nefnd sé sett í það mál. Samþykt. Í nefndina setti forseti: Jón M. Ólason, Herdísi Eiríksson, séra Jóhann Friðriksson, Th. J. Gíslason og Einar Sigurðsson.

**Fjármál.**

Dr. Beck lagði til og Jón M. Ólason studdi að þriggja manna nefnd sé sett í fjármálin. Samþykt. Forseti setti í nefndina. G. L. Jóhannsson, H. Ólafsson og Sigurð Einarsson.

**Fræðslumál.**

Mrs. Dr. S. E. Björnsson lagði til og Mrs. Herdís Eiríksson studdi, að forseti skipi 5 menn í það mál. Samþykt. Skipaðir voru. Dr. T. J. Oleson, Mrs. S. E. Björnsson, Mrs. L. Sveinsson, Jónatan Jónsson og Mrs. E. P. Jónsson.

**Samvinnumálanefnd við Ísland.**

Séra Jóhann Friðriksson lagði til og Mrs. P. S. Pálsson studdi, að í þá nefnd séu skipaðir 5 menn. Samþykt. Í nefndina voru skipaðir, Dr. Beck, H. G. Sigurðsson, Ólafur Hallson, Eiríkur Vigfússon og Grettir L. Jóhannsson.

**Kveðjur og skeyti til þingsins.**

Sendum þjóðræknisþinginu og öllum Vestur-Íslendingum vinarkveðjur og árnaðaróskir.

ÁGÚSTA og THOR THORS

Rev. Philip M. Pétursson,
Banning St., Winnipeg.

Ber þjóðræknisþingi heillaóskir og hjartanlega kveðju.

KOLKA

Heilhuga árnaðaróskir til þrítugasta og annars þjóðræknisþings Íslendinga í Vesturheimi.

A. E. KRISTJÁNSSON
DAGBJÖRT VOPNFJÖRÐ
forseti og ritari Öldunnar,
Blaine, Wash.

Dr. Richard Beck flutti þinginu kveðjur og árnaðaróskir frá háskóla Norður Dakotaríkis, og forseta hans Dr. John C. West. Hann flutti líka eftirfarandi kveðju frá the Society for the Advancement of Scandinavian Study.

**Kveðja til Þjóðræknisfélagsins**

Eftir Dr. Richard Beck, forseta fræðafélagsins "The Society for the Advancement af Scandinavian Study".

Herra forseti! kæru landar!

Ég vil hefja mál mitt með því að flytja þjóðræknisþinginu hugheilustu kveðjur og óskir háskóla míns, ríkisháskólans í Norður-Dakota, og forseta hans, dr. John C. West, en hann er, eins og kunnugt er, heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins og hefir með mörgum hætti sýnt í verki góðvild sína í garð Íslendinga.

Sem forseti Norræna fræðafélagsins ameríska, "The Society for the Advancement of Scandinavian Study", er mér það einnig sérstaklega kært hlutverk að mega færa þingheimi innilegustu kveðjur og velfarnaðaróskir þess félagsskapar; og það því fremur, sem umrætt fræðafélag stendur nú á fertugu. Á félagið því langa, og óhætt má segja, harla merka sögu sér að baki, sem er fyllilega þess virði, að hún sér hér rakin í nokkrum megindráttum.

Eins og nafn þess bendir til, vinnur "The Society for the Advancement of Scandinavian Study" að eflingu og útbreiðslu norrænna fræða vestan hafs; nær starfssvið þess til Norðurlandanna allra, sögu þeira, bókmennta og menningar, að fornu og nýju. Félagsfólk þess, sem skiptir allmörgum hundruðum og er að finna bæði í Bandaríkjunum og Canada, þó fleira af því sé sunnan landamæranna, er einnig af öllum þjóðstofnum Norðurlanda. Í þeim hópi eru sem vænta má háskólakennarar í norrænum og germönskum fræðum víðsvegar um þessa álfu, og einnig fjöldi karla og kvenna, sem áhuga hafa á bókmenntum og menningu Norðurlanda og vilja varðveita þá menningar-arfleifð sína sem lengst og gera hana sem arðbærasta í andlegu lífi hérlendis. Hér er því í rauninni um allsherjar norrænt menningarfélag að ræða. Stjórn félagsins hafa einnig skipað og skipa fræðimenn úr flokki allra Norðurlandaþjóða, og stundum einnig áhugasamir leikmenn í þessum efnum.

Í meir en 30 ár hefir félagið gefið út fræðiritið **Scandinavian Studies** (áður **Scandinavian Studies and Notes**), er nú kemur út sem ársfjórungsrit, og flytur það í anda stefnuskrár félagsins, ritgerðir og ritdóma um bókmenntir, sögu og menningu Norðurlanda, og hefir eigi lítill hluti af því efni snert Ísland og íslenzkar bókmenntir, ekki síst fornbókmenntirnar.

Á ársfundum félagsins, sem löngum eru haldnir á einhverjum háskóla þar sem norræn fræði eru kennd, eru alltaf flutt allmörg erindi um norrænar bókmenntir eða málfræðileg efni, og eru það engar ýkjur, þó sagt sé, að Ísland hafi þar sannarlega ekki orðið útundan. Eru þeir líka margir í hópi hinna amerísku fræðimanna, sem mest hafa komið við sögu félagsins og staðið þar og standa í broddi fylkingar, er lagt hafa sérstaka rækt við íslenzk fræði og eru einlægir vinir og velunnarar Íslands og Íslendinga. Þó að tími leyfi eigi að nefna nöfn slíkra fræðimanna að þessu sinni, því að þau skipta tugum, tel ég mér það skylt, og er það að sama skapi ljúft, að minnast áhuga þeirra á íslenzkum fræðum og starfs þeirra á því sviði, á þessum merku tímamótum í sögu Norræna fræðafélagsins ameríska, sem þeir og aðrir samherjar þeirra stofnuðu fyrir 40 árum síðan.

Ég veit, að vér erum öll sammála um það, að þeir ágætu fræðimenn, sem þar eiga hlut að máli, hafi innt af hendi hina þakkarverðustu menningar viðleitni í vora þágu. En það fræðistarf þeirra, erlendra manna, og starfsemi Norræna fræðafélagsins ameríska í heild sinni, er tekur um svo margt til Íslands, getur einnig verið oss áminning um það, hve auðuga bókmenntaog menningar-arfleifð vér höfum að erfðum hlotið. Það eitt sér, að tugir fræðimanna og kvenna (því að konurnar hafa einnig lagt þar fram sinn góða skerf) í hinum merkustu menntastofnunum víðsvegar um Vesturálfu láta sér sérstaklega um það hugað að kenna og túlka íslenzkar bókmenntir og menningarsögu, er ærinn vottur um viðurkennt gildi þeirra menningarverðmæta vorra. Í því felst eigi aðeins áminning, heldur einnig eggjan til vor Íslendinga.

Því hefir mér einnig þótt sæma að draga athygli yðar landa minna að sögu og starfi Norræna fræðafélagsins ameríska, um leið og ég í nafni hinna mörgu norrænu bræðra og systra vestan hafs, sem fylla flokk þess og styðja það að starfi, tel mér mikinn sóma að því að flytja þjóðræknisþinginu bróðurlegar kveðjur og heillaóskir. Fullviss er ég þess, að þær kveðjur slá á næma strengi í brjóstum ykkar, því að óhögguð standa orð Einars Benediktssonar í kvæði hans til danska stúdentaflokksins aldamótaárið:

„Vor forna tunga' á auð af góðum orðum,
og uppruninn hann tengir þjóð við þjóð.
Vor forna saga' er ættfróð eins og forðum:
í ættum okkar rennur frænda blóð".

Mrs. Dr. S. E. Björnsson flutti þinginu kveðjur frá Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Reykjavík, biskupi Íslands og frú, Félagi Austfirðinga, Skógræktarfélagi Íslands og fjölda Íslendinga, sem að hún hitti á ferðum sínum á Íslandi síðastliðið sumar.

Ólafur Hallsson flutti og kveðjur frá Íslandi, þar á meðal eftirfarandi frá séra Jakobi Jónssyni í Reykjavík, sem að Ólafi var afhent í samsæti, er honum var haldið í Reykjavík á síðastliðnu sumri ásamt fleiri Vestur-Íslendingum:

Þið sem komuð heiman „heim",
helgidóms að vitja.
Heilsið af öllu hjarta þeim,
sem heima urðu að sitja.

Trausti Ísfeld stakk upp á að við kveðjunum sé tekið með þakklæti og að skrifara sé falið að viðurkenna þær á viðeigandi hátt. Jón M. Ólason studdi tillöguna og var hún samþykt.

Mrs. Ingibjörg Jónsson lagði til og Mrs. Backmann studdi, að fundi sé frestað til 9.30 á þriðjudagsmorgun. Samþykt.

Á mánudagskveldið hélt deildin Frón hið árlega mót sitt. Var það prýðileg samkoma og vel sótt. Skemtiskráin var sem fylgir:

O, CANADA
ÁVARP FORSETA ........Ingibjörg Jónsson
SVENSKI KARLAKÓRINN:
Dear land of Home, JEAN SIBELIUS
Stormur lægist stríður, ÓSKAR BORG
Fjerran han dröjer, FINNSKT ÞJÓÐLAG
FRUMORT KVÆÐI Dr. Richard Beck
EINSÖNGUR .............Séra Eirc H. Sigmar
Bæn ..............................F. EKEBERG
Nú legg ég augun aftur
BJÖRGVIN GUÐMUNDSSON
Sólskríkjan ...................JÓN LAXDAL
Sigrid Bárdal spilaði undir
RÆÐA ................Hon. Valdimar Björnsson
CELLO SOLO ...................Harold Jónasson
FRUMORT KVÆÐI ........Einar P. Jónsson
SVENSKI KARLAKÓRINN:
De Sandman, DANIEL PROTHEROE
Í Rökkursölum F. MORRING
Den store, hvide flok, NORSKT ÞJÓÐLAG
SÖNGSTJÓRI FLOKKSINS
Arthur A. Anderson
EINSÖNGVARAR:
Albert Halldórsson
Nels Anderson
Og svo var dansað.

Fundur settur þriðjudaginn 27. febrúar kl. 9.30. Fundargjörningur frá síðasta fundi lesinn og samþyktur.

**Þingskýrsla bókasafnsnefndar.**

Framsögumaður Jón Jónsson bókavörður. Skýrslan var í tveimur liðum og hljóðaði þannig:

1. Nefndin leggur til, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins láti eins fljótt og unt er gjöra við band á bókum bókasafnsins eftir þörfum og haldi bókum safnsins í eins góðu lagi og mögulegt er í framtíðinni, og að bókaverði sé falið á hendur að tilkynna það stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins þegar þess virðist sérstaklega þörf.

2. Sömuleiðis leggur nefndin til, að miðvikudagar séu algjörlega gefnir til bókasafns félagsins frá öllum öðrum notkunum á herbergi því, sem næst er bókasafninu.

Jón M. Ólason
Pétur N. Nikulásson
Jón Jónsson

Mrs. P. S. Pálsson lagði til að fyrri liðurinn sé samþykktur, Jón M. Ólason studdi. Breytingartillaga frá Mrs. Backmann, að liðnum sé vísað til fjármálanefndar þingsins, sem að Einar Sigurðsson studdi, var samþykt. Um annan lið tillögunnar urðu nokkrar umræður og hann svo samþyktur.

Mrs. Dr. S. E. Björnsson flutti næst hið ítarlega erindi um skógrækt á Íslandi, sem hér fylgir:

**Fáein orð um skógrækt á Íslandi**

Flutt á Þjóðræknisþingi í Winnipeg, 27. febrúar 1951

Það voru talsverð vonbrigði fyrir mig í sumar þegar lent var á Keflavíkurflugvelli, að bera saman hinn gráa grjótheim Reykjanesskagans, við hið frjósama land Skotanna, sem ég var þá nýbúin að ferðast um og dást að í huganum. Þarna er nú ferðast yfir óslitið hraun alla leið frá Keflavík til Hafnarfjarðar. Ofurlítill jarðvegur er þó innan um hraunin á stöku stað, og vottar fyrir grasi og kjarri sums staðar, en það var allt sem gróður getur kallast. Er þetta heldur ömurleg mynd af landinu fyrir þá sem að einungis koma á þennan stað og sjá ekkert annað, og það eru sjálfsagt margir, því að þarna lenda flugvélarnar í tugum daglega og hverfa svo að stundu liðinni út í heiminn. En mér fanst myndin ömurleg, og því meiri fögnuð vakti það hjá mér, að nokkrum dögum seinna hafði ég tækifæri á því að kynnast skógræktarstarfseminni að nokkru. Stuttu eftir heimkomuna bauð Ófeigur Ófeigsson læknir okkur hjónum með sér til Þingvalla. Fór hann þangað sem fulltrúi Suðurnesinga til þess að sitja 20 ára afmælisþing Skógræktarfélags Íslands, sem var haldið á þeim fornhelga stað, Þingvöllum, og stóð yfir í þrjá daga. Á þessu þingi voru mættir fulltrúar frá öllum sýslum og mörgum héruðum landsins, og mikill áhugi sýndist ríkja fyrir málefninu. Reynsla hinna 20 ára, og í raun og veru hálfrar aldar reynsla, hefir í fyllsta máta sannfært þjóðina um nauðsyn skóggræðslunnar. Félagið hefir átt

mörgum afburðamönnum á að skipa, sem hafa reynst frábærir kennarar og leiðtogar í starfinu, frá því það hófst með nokkurri alvöru. Er nú svo komið að áhugi þjóðarinnar má nú heita orðinn almennur, og er nú skógræktin orðin eitt af hennar mestu áhugamálum. En þetta er nú ekkert smáræðis verkefni — að klæða landið og er mönnum það auðvitað fyllilega ljóst. En árangurinn sem orðinn er af því, sem þegar hefir verið gert á fáum árum, hefir fært mönnum sanninn um það, að skógrækt á Íslandi er möguleg, með réttum aðferðum og með því að rækta réttar tegundir trjáa. Þekking á þessu er nú að miklu leyti fengin, og síðan hefir trjáræktin færst mikið í aukana. En til þess að afla sér meiri kunnáttu hefir félagið sent starfsmenn sína víða um lönd, bæði til fræsöfnunar og rannsókna í öllu því, er að trjárækt lýtur. Hefir þessi aðferð orðið ærið kostnaðarsöm, en að sama skapi gæturík fyrir málefnið. Þeim er það fyllilega ljóst að í þessu sem öðru, er betra að byrja rétt og beita sér þá að starfinu, þegar nauðsynleg þekking er fengin. Eitt af því, sem hefir vakið meiri áhuga hjá yngra fólki fyrir málefninu eru hópferðir milli landa, og var ein sú ferð farin milli Noregs og Íslands árið 1948. Komu um 30 norskir skógræktarmenn og konur í flugfari til landsins og tók sama flugvélin með sér aðra 30 Íslendinga til Noregs. Ferðuðust svo þessir hópar um skógræktarsvæðin, sinn hópur í hvoru landi, og plöntuðu trjáfræjum og plöntum eftir leiðsögn kennara, sem til þess voru valdir að leiðbeina fólkinu. Var þetta lærdómsríkur listitúr fyrir alla þátttakendur og hefir að mun aukið áhuga fyrir málefninu hjá þeim öllum. Þá hefir fræsöfnun verið gerð í ýmsum löndum og hefir félagið sent sína eigin sérfræðinga út af örkinni þeirra erinda. Munu þeir Hákon Bjarnason og Vigfús Jakobsson hafa orðið fyrstir til þess að ferðast til Alaska til fræsöfnunar, og nú í sumar var Einar G. Sæmundsson sendur þangað sömu erinda. Má segja að mikið sé fyrir þessu haft, en hér er um að ræða nauðsynina á því að rétt sé með fræið farið og það reynist ekki ónýtt þegar til á að taka, því í þessu tilfelli er tíminn dýrmætur eins og ávalt, og lítið vinnst með því að bíða eftir því að ónýtt fræ skjóti öngum.

En hér verður nú að fara fljótt yfir langa sögu. Auk þeirra yndisstunda, sem við nutum hjá Ófeigi lækni í sumarhúsi prýðilegu, sem hann hefir sjálfur reist við Þingvallavatnið, gafst okkur það ógleymanlega tækifæri að sitja á flestum fundum félagsmanna, og vorum þar heiðursgestir þeirra til þingslita, hlustuðum þar á fjörugar umræður og nutum bæði andlegrar og líkamlegrar hressingar með þeim á hinum sögufræga þingstað. En það er nú önnur saga.

Þess má geta, að þarna kynntumst við ýmsum ágætum leiðtogum Skógræktarfélags Íslands. Er Valtýr Stefánsson ritstjóri Morgunblaðsins forseti félagsins, og stýrði hann fundum með lipurð og skörungsskap. Einn þeirra manna, sem beitir sér mest fyrir skógræktinni er Hákon Bjarnason skógfræðingur og skógræktarstjóri ríkisins. Kvað mikið að honum á þessu þingi og má eflaust mikils af honum vænta í öllu þessu skógræktarstarfi. Fjöldi ágætra manna var þarna með lífi og sál í öllu því, er að gagni mætti koma. Þar var Árni G. Eylands, sem við öll þekkjum hér að öllu góðu og H. J. Hólmjárn efnafræðingur frá Reykjavík og ýmsir merkir menn frá höfuðstaðnum. Frá öðrum héruðum landsins voru engu síður áhugasamir og duglegir félagsmenn, þar á meðal Guðm. Karl Pétursson, yfirlæknir á Akureyri, Þórarinn Þórarinsson, skólastjóri á Eiðum, Séra Sigurður Sigurðsson frá Möðruvöllum í Hörgárdal, Guttormur Pálsson, skógræktarstjóri á Hallormsstað, og Þorvaldur Árnason, skattstjóri í Hafnarfirði, svo ég nefni nokkra af mörgum. Þá er Einar G. Sæmundsson, sá er síðar fór til Alaska í fræsöfnunarerindum, mikill áhugamaður fyrir málefninu og duglegur að sama skapi. Ýmsa þátttöku kvenna hef ég ekki minnst á í þessu sambandi, en þær eiga þar drjúgan skerf, sem annars staðar, frú Margrét Friðriksdóttir er formaður skógræktarfélags í Seyðisfirði og eru tvær aðrar konur í þeirri nefnd, og þannig er það með fleiri deildir.

Fleiri mætti nefna, sem beita sér þarna fyrir málinu, en þetta nægir til þess að sýna hversu áhuginn er almennur og að hér er um ágæta leiðtoga að ræða, sem líklegir eru til mikilla framkvæmda. Ófeigur læknir er og mikill áhugamaður og atorkumaður í þessu sem öðru, og erum við honum mjög þakklát fyrir hans góðu leiðsögn, gestrisni og alúð, bæði þá og síðar. Ég vil geta þess, að á þessu 20 ára afmæli gerðumst við hjónin ævifélagar í Skógræktarfélagi Íslands og hlutum með því öll réttindi þingsins eins og lög gjöra ráð fyrir.

Síðar á okkar ferðalagi áttum við þess kost að sjá mikið af nýræktinni. Einn

